# Almanak

fyrir árið

# 1910

sem er annað ár eftir hlaupár og fjórða ár eftir sumarauka,
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba

---

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

SEXTÁNDA ÁR.

---

WINNIPEG
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1909

### Á þessu ári teljast liðin vera:

frá Krists fæðingu ....................1910 ár
frá sköpun veraldar....................5877 ár
frá upphafi Íslandsbygðar..............1036 ár
frá siðabót Lúters......................393 ár

---

Árið 1910 sunnudagsbókstafur B.
Gyllintal: 11.

---

Milli jóla og langaföstu eru 6 vikur og 1 dagur.

---

### Myrkvar.

Á árinu 1910 verða 4 myrkvar, 2 á sólu og 2 á tungli. Tveir þeirra eru sýnilegir hér: Sólm. 2. nóv., og tunglmyrkvi 17. nóvember.

13. des. um kl. 1 f. m. hylur tunglið plánetuna Satúrnus.

---

### Árstíðirnar.

Í Vestur-Canada er talið að

Vorið byrji .................... 21. marz
Sumarið........................ 21. júní
Haustið........................ 23. september
Veturinn....................... 22. desember

---

### Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

---

### Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkerta. ljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði- Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir ---sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ókvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1911 | 16. Apríl | 1916 | 23. Apríl |
| 1912 | 7. Apríl | 1917 | 8. Apríl |
| 1913 | 23. Marz | 1918 | 31. Marz |
| 1914 | 12. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| 1915 | 4. Apríl | 1920 | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leidir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínutur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni:

---

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum fyrir hvert mælistig austan hans.

## VEDURFRÆDI HERSCHEL'S,

**er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.**

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni, er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðrabreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl. fyrsta kvartil, ful tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri : | Á vetri : |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður................ | Frost, nema sunnanvindur sé. |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum............. | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 " 6 " " .... | Regn ........................ | Regn. |
| " " 6 " 8 " " .... | Vindur og regn............... | Stormasamt |
| " " 8 " 10 " " .... | Breytilegt veður............. | Kalt og regn, sé vindur af vestri ; snjór sé vindur af austri. |
| " "10 " 12 " " .... | Tíðar skúrir................. | Kalt og hvast veður. |
| " "12 " 2 e. m......... | Mjög rigningasamt............ | Snjór og regn, |
| " " 2 " 4 " ........ | Breytilegt veður............. | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 " 6 " ........ | Fagurt veður................. | Fagurt verður. |
| " " 6 " 8 " ........ | Fagurt, sé vindur af norðvestri | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n.a. |
| " " 8 " 10 " ........ | Rigning, sé vindur af s. eða s.v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " "10 " miðnættis........ | Fagurt....................... | Fagurt veður með frosti. |

### Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða slái á hann grænum eða gul-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sólarlag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

### Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta, er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

### Kóróna.

Með kórónu meinum vér smáa hringi, er sjást oft um sólina eða tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stækki hún, er fagurt veður í vændum.

### Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er álitinn boða regn; regnbogi að kveldi, fagurt veður.

### Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skújað loft, boðar það fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

### Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

### Skafheiður himinn.

Þegar gufuhvolfið er óvanaleg skírt, og mjög stjörnubert er, og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

### Skýinn.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hrefast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau, er menn oft nefna „hestatögl" köllum vér þráðaský (Cirri). Einkenni þeirra er, að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnant fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar, reglulega myndaðar þyrpingar af skýum þessum sjást oft fyrir stöðugublíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm, eru þau vanalaga þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvíleitum, löngum skýbakka. Ský þau er alment eru kölluð „baðmullar-sekkir", eða „þrumuhöfuð", köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins, en hverfa með kvöldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga lagt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regni. Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast við skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggja marflöt og taka yfir m kið svæði, boða fagurt veðu. Lítil svört vindaský eru fyrirboði regns.

### Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að

hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann „fellur“ flótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur—smábreytist ekki —, verður sama fallega veðrið, þótt búast mætti við þykkn lofti. Ef hann stendur lágt og er að „falla“, er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hann „stigur“ eða „fellur“ skyndilega (meira en 0,01 úr þumiungi á kl.. stund) bendir það á óstöðugt veður og storm.

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið berjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardarginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alhemssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissurson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148
Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skafta ellssýslu 1186
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geysaði, 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmann Gottskálkssyni, 1540.
Fyrstur fastur látínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17.öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslandi 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1771
Ávveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálhol tig Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin kouunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið á þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju, 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjávíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur frá Reykjavík 1801.
Latinuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau koma út 1796—1808.
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stórnmálatundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Stærð úthafanna.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið er um | | 4,781,000 ferh. | míl. | flatarmál. | |
| Suður-Íshafið | " " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " " | 17,084,000 | " | " | " |
| Atlandshafið | " " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " " | 50,309,000 | " | " | " |

---

**Lengstur dagur.**

| | kl. t. m n. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 35 |
| Edinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| París | 16 05 |
| Victoria B.C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

**Þegar klukkan er 12**

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e.h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinbu.gh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calctta, Indl. | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.54 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú. | 12.00 | á hád. |

---

## JANÚAR hefir 31 dag 1910

**Umskurn Krists,** Lúk. 2. MÖRSUGUR

L 1 | Nýársdagur 11. v. vetrar

**Barnamorðið í Betlehem,** Matt. 2.

S 2 | S. e. nýár — Þrælahald aftekið í Bandaríkj. 1865
M 3 | ☽Síð.kv.5.27e.m.
Þ 4 | Konráð Gíslason d. 1891
M 5 |
F 6 | Þrettándi (Epiphanía)
F 7 | Knútsdagur—Eldbjargarmessa
L 8 | Ólafur Hjaltason bisk. d. 1569 12. v. vetrar

**Þegar Jesús var 12 ára,** Lúk. 2.

S 9 | 1. s. e. þrett. Napóleon 3. d. 1873
M 10 |
Þ 11 | ●N.t.3.51,e.m. (Þorratungl)
M 12 | Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268
F 13 | Geisladagur
F 14 |
L 15 | Sandvíkureyjar fundnar 1778 13 v. vetrar

**Brúðkaupið í Kana,** Jóh. 2.

S 16 | 2. s. e. þrett. British Museum opnað 1759
M 17 | Benj. Franklín f. 1706
Þ 18 | ☾F. kv. 2. 20 e. m.
M 19 | Fyrst fundið gullið í Calfornía 1849
F 20 | Bræðramessa
ÞORRI
F 21 | Agnesarmessa Miður vetur
L 22 | Victoria drottning d. 1901. 14. v. vetrar

**Verkamenn í víngarði,** Matt. 20.

S 23 | Níu vikna fasta Gustav Doré d. 1882
M 24 |
Þ 25 | ○F.t.3.50 e.m. — Pálsmessa.—K.fél. Ísl. í V.h.
M 26 | [stofnað 1885.
F 27 | Mozart, tónfræðingur f. 1759
F 28 | Holberg, danska skáldið d. 1754
L 29 | McKinley forseti f. 1843 15. v. vetrar

**Fernskonar sáðjörð,** Lúk. 8.

S 30 | 2. s. í níu v. f.
M 31 | Guðbr. Vigfússon d. 1889

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1910

ÞORRI

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | Brigildarmessa. | |
| M | 2 | ☽Síð. kv. 3.27 e.m. | Kyndilmessa |
| F | 3 | Blasíusmessa | |
| F | 4 | | |
| L | 5 | | 16 v. vetrar |

**Skírn Krists,** Matt. 3.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | Langafasta (sjö vikna f.) | |
| M | 7 | Charles Dickens f. 1812 | |
| Þ | 8 | Sprengikvöld | |
| M | 9 | Öskudagur | Baldvin Einarsson d. 1833 |
| F | 10 | ☺N.t. 5.13 f.m. | |
| F | 11 | Thomas Edison f. 1847 | |
| L | 12 | Lincoln f. 1809 | 17. v. vetrar |

**Djöfullinn freistar Jesú.** Matt. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 1.s. í föstu | |
| M | 14 | Lúters síðasta prédikan 1546 | |
| Þ | 15 | | |
| M | 16 | ☾F. kv. 10.32 e.m. | Imbrudagar. Sæluvika |
| F | 17 | Michael Angelo d. 1563 | |
| F | 18 | | |
| L | 19 | Þorraþræll | 18. v. vetrar |

**Kanverska konan.** Matt. 15.

GÓA

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 2. s. í föstu | |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | Pétursmessa | George Washington f. 1732 |
| M | 23 | | |
| F | 24 | ☺Fult t. 7.36 f.m. | Ingeman d. 1862 |
| F | 25 | | |
| L | 26 | | 19. v. vetrar |

**Jesús rak út djöful.** Lúk. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 3. s. í föstn | Longfellow f. 1807 |
| M | 28 | | |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | | GÓA |
| M | 2 | Fyrsta þing Bandaríkjanna sett 1781 | |
| F | 3 | Jónsmessa Hólab. (h.f.) | |
| F | 4 | ☽Síð. kv. 11.52 f.m. | Sig. Breiðfjörð f. 1798 |
| L | 5 | | 20.v. vetr. |
| | | **Jesús mettar 5000 manns.** Joh. 4. | |
| S | 6 | Meðfasta | Sveinbj. Egilsson f. 1791 |
| M | 7 | | |
| Þ | 8 | Jón Thoroddsen d. 1868 | |
| M | 9 | Merrimac og Monitor bardaginn 1863 | |
| F | 10 | | |
| F | 11 | ●Nýtt t. 4.12 e. m. (Páskat.) | |
| L | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 | 21.v.vetrar |
| | | **Gabríel engill sendur.** Lúk. 1. | |
| S | 13 | 5.s. í föstu | Guðbr. Vigfússon f. 1827 |
| M | 14 | | |
| Þ | 15 | Fyrsta þing Manitoba-fylkis sett 1871 | |
| M | 16 | Gvöndardagur | |
| F | 17 | Björn Gunnlögsson d. 1876 | |
| F | 18 | ☾F. kv. 7.37 f.m. | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| L | 19 | David Livingstone f. 1813 | 22. v. vetrar |
| | | **Krists innreið í Jerúsalem.** Matt. 21. | |
| S | 20 | Pálmasunnudagur (dymbilvika) | |
| M | 21 | Jafndægur; vor byrjar. | Góuþræll |
| | | | EINMANUÐUR |
| Þ | 22 | Göethe d. 1832 | Heitdagur |
| M | 23 | | |
| F | 24 | Skírdagur | Longfellow d. 1882 |
| F | 25 | Föstudagur langi | Boðunardagur Maríu |
| L | 26 | ○F. t. 12.21 f.m.—Beethoven d. 1823— | 23. v. v. |
| | | **Krists upprisa.** Mark. 16. | |
| S | 27 | Páskadagur | John Bright d. 1889 |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | Swedenborg d. 1772. Jón Eiríksson, konferens- | |
| M | 30 | | [ráð d. 1787 |
| F | 31 | | |

APRÍL hefir 30 daga 1910

EINMANUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Bismark f. 1813 | |
| L | 2 | Emil Zola f. 1849 | 24. v. vetrar |

**Jesús kom að luktum dyrum.** Jóh. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 3 | 1.s.e. páska ☽Síð. kv. 3.48 e. m. | |
| M | 4 | Oliver Goldsmith d. 1744 | |
| Þ | 5 | Hallgr. biskup Sveinsson f. 1850 | |
| M | 6 | Canada fundin 1497 | |
| F | 7 | | |
| F | 8 | Kristján IX. f. 1818 | |
| L | 9 | | 25. v. vetrar |

**Jesús er góði hirðirinn.** Jóh. 10.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 10 | 2.s.e. páska ●Nýtt t. 12.25 f. m. | |
| M | 11 | | |
| Þ | 12 | Henry Clay f. 1777 | |
| M | 13 | Thomas Jefferson f. 1743 | |
| F | 14 | | |
| F | 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865 | |
| L | 16 | ☾fyrsta kv. 6.04 e. m. | Sumarmál af 26. v. v. |

**Krists burtör til föðursins.** Jóh. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 17 | 3.s.e páska | Benj. Franklin. d. 1790 |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | Melankton d. 1560 | |
| M | 20 | Darvin d. 1882 | |
| | | | HARPA |
| F | 21 | | Sumard. yrsti— 1. v. sumars |
| F | 22 | Kóngsbænadagur | |
| L | 23 | Jónsmessa. Hólab. (h. s.) | |

**Sending heilags anda.** Jóh. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 24 | 4.s.e. páska ○F. t. 5.24 e. m. | |
| M | 25 | Gangdagurinn eini (mikli) | |
| Þ | 26 | Moltke hershöfðingi d. 1891 | |
| M | 27 | U. S. Grant hershöfðingi f. 1822 | |
| F | 28 | Jón Ögmundsson, bisk. á Hólumd. 1121 — | 2. v. s. |
| F | 29 | Krímstriðið hætti 1856 | |
| L | 30 | | |

Harpa

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | **Biðjið í Jesú nafni.** Jóh. 16. | |
| S | 1 | 5. s. e. páska | Tveggja postula messa |
| M | 2 | | |
| Þ | 3 | ☾Síð.kv.5.30f.m. | |
| M | 4 | | |
| F | 5 | Uppstigningardagur | 3. v. sumars |
| F | 6 | | |
| L | 7 | | |
| | | **Þegar huggarinn kemur.** Joh. 15. | |
| S | 8 | 6. s. e. páska | John Stuart Mill d. 1873 |
| M | 9 | ●N.t.9.33 f.m. | |
| Þ | 10 | Eldaskildagi | |
| M | 11 | | |
| F | 12 | | 4. vika sumars |
| F | 13 | Stofnuð fyrsta ensk nýlenda í Ameríku 1601 | |
| L | 14 | Vinnuhjúaskildagi | |
| | | **Sá. sem elskar mig.** Jóh. 14. | |
| S | 15 | vítasunnudagur | P. Pétursson bisk. d. 1891 |
| M | 16 | ☽F. kv. 6.13 f. m. | Annar í hvítasunnu |
| Þ | 17 | ómas Sæmundsson d. 1841 | |
| M | 18 | mbrndagar. Sæluvika | |
| F | 19 | Gladstone d. 1898 | 5. v. sumars |
| F | 20 | Christopher Columbns d. 1506 | |
| | | | Skerpla |
| L | 21 | | |
| | | **Kristur og Nikódemus.** Jóh. 3. | |
| S | 22 | Trínitatis. | Sæmundur fróði d. 1135 |
| M | 23 | | |
| Þ | 24 | ○F.t.9.39 f.m. | |
| M | 25 | | |
| F | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 | 6. v. sumars |
| F | 27 | Calvín d. 1564 | |
| L | 28 | | |
| | | **Hinn auðugi maður.** Lúk. 16. | |
| S | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| M | 30 | | |
| Þ | 31 | | |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1910

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | SKERPLA |
| M | 1 | ☽Síð. kv. 2,25 f.m. | |
| F | 2 | | 7. v. sumars |
| F | 3 | | |
| L | 4 | | |

**Hin mikla kvöldmáltíð.** Lúk. 14,

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | 2. s. e. trín. | |
| M | 6 | Alexander mikli d. 356 f. K. | |
| Þ | 7 | ●Nýtt t. 5.16 e. m. | |
| M | 8 | Jón landlæknir Hjaltalín d. 1882 | |
| F | 9 | Charles Dikens d. 1870 | 8. v. sumars. |
| F | 10 | | |
| L | 11 | | |

**Hinn týndi sauður.** Lúk. 15.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | 3. s. e. trín. | |
| M | 13 | Jón landlæknir Sveinsson d. 1803 | |
| Þ | 14 | ☾F. kv. 8.19 e.m. | |
| M | 15 | John Engl. konung. undirskr. *Magna Carta* 1215 | |
| F | 16 | | 9. v. sumars |
| F | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 | |
| L | 18 | | |

**Verið miskunsamir.** Lók· 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 4. s. e. trín. | |
| | | | Sólmánuður |
| M | 20 | | |
| Þ | 21 | | |
| M | 22 | Sólstöður; lengstur dagur | 10,000 píslarvottar |
| F | 23 | ○F. t. 12.12 f.m. | 10. v. sumars |
| F | 24 | Jónsmessa | |
| L | 25 | | |

**Jesús kennir af skipi.** Lúk. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | 5. s. e. trín. | |
| M | 27 | | |
| Þ | 28 | | |
| M | 29 | Pétursmessa og Páls | |
| F | 30 | ☽Síð. kv. 8.39 f. m. | 11. v. sumars |

JÚLÍ hefir 31 dag 1910

SÓLMANUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Dominion-dagur | |
| L | 2 | Þingmaríumessa. | Sviðhúnsmessa (h.f.) |
| | | **Réttlæti faríseanna.** Matt. 5. | |
| S | 3 | 6. s. e. trín. | |
| M | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) | |
| Þ | 5 | | |
| M | 6 | | |
| F | 7 | ●Nýtt t. 1.20 f. m. | 12. vika sumars |
| F | 8 | Selumannamessa | |
| L | 9 | | |
| | | **Jesús Mettar 4000 manna,** Mark. 8. | |
| S | 10 | 7. s. e. páska | John Calvín f. 1509 |
| M | 11 | | |
| Þ | 12 | | |
| M | 13 | Margrétarm. | Franska stjórnarbyltingin 1789 |
| F | 14 | ☾fyrsta kv. 12.24 e. m. | 13. vika sumars |
| F | 15 | Sviðhúnsmessa (h.f.)— Krossfarendur tóku Jerú- | |
| L | 16 | | [salem 1099 |
| | | **Um falsspámenn.** Mattr. 7. | |
| S | 17 | 8. s. e. trín. | |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | | |
| M | 20 | Þorláksmessa (á sumri)—Aukanætur—Guðbrand- | |
| F | 21 | [ur biskup d. 1627 | 14. v. sumars |
| F | 22 | ☺F. t. 12. 37 e. m. | |
| L | 23 | Hundadagar byrja | |

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | **Hinn rangláti ráðsmaður.** Lúk. 16. | |
| S | 24 | 9. s. e. trín. | Miðsumar |
| M | 25 | Jakobsmessa | |
| Þ | 26 | | |
| M | 27 | | |
| F | 28 | | 15. vika sumars |
| F | 29 | ☽Síð. kv. 1.35 e.m. | Ólafsmessa (h. f.) |
| L | 30 | | |
| | | **Jesús grœtur yfir Jerúsalem.** Lúk. 19. | |
| S | 31 | 10. s. e. trín. | |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1910

| | | | Heyannir |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Bandadagur | Jón Espólín d. 1836 |
| Þ | 2 | Benidikt sýslum. Sveinsson d. 1899 | |
| M | 3 | Ólafsmessa (h.s.) | |
| F | 4 | H. C. Andersou d. 1875 | 16. v. sumars |
| F | 5 | ☺N.t. 10.37 f.m. | Brynj. bisk. Sveinsson d. 1675 |
| L | 6 | | |
| | | **Faríseinn og tollheimtumaðurinn.** Lúk. 18. | |
| S | 7 | 11. r. s. e. trín. | |
| M | 8 | | |
| Þ | 9 | Kapt. Maryatt d. 1818 | |
| M | 10 | Lafranzmessa | |
| F | 11 | | 17. v. sumars |
| F | 12 | | |
| L | 13 | ☾F. kv. 6.01 f.m. | Bólu-Hjálmar d. 1876 |
| | | **Daufi og málhalti maðurinn.** Mark 7. | |
| S | 14 | 12. s. e. trín.—Napóleon 1. d. 1769 | |
| M | 15 | Maríumessa | |
| Þ | 16 | | |
| M | 17 | Sveinbj. Egilsson d. 1852 | |
| F | 18 | | 18 v. sumars |
| F | 19 | Gestur Pálsson d. 1892 | |
| L | 20 | ☺Fult t. 11.14 e.m. | |
| | | **Hiun miskunnsami Samverji.** Lúk. 10. | |
| S | 21 | 13. s.e. trín. | |
| M | 22 | | |
| | | | Tvímánuður |
| Þ | 23 | | |
| M | 24 | Hundadagar enda. | Bjarni Thorarensen d. 1841 |
| F | 25 | | 19. v. sumars |
| F | 26 | | |
| L | 27 | ☽Síð. kv. 6.01 e.m. | |
| | | **Tíu líkþráir.** Lúk. 17. | |
| S | 28 | 14. s.e. trín. | Ágústín d. 430 |
| M | 29 | Höfuðdagur | Jóhannes skírari líflátinn |
| Þ | 30 | | |
| M | 31 | | |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1910

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | Tvímanuður |
| F | 1 | | 20. v. sumars |
| F | 2 | | |
| L | 3 | Nýtt t. 10.06 e. m. | |
| | | **Enginn kann tveim herrum að þjóna.** Matt. 6. | |
| S | 4 | 15. e. trín. Franska lýðveldið stofa. 1870 | |
| M | 5 | Verkamannadagur | |
| Þ | 6 | | |
| M | 7 | | |
| F | 8 | Marium. (h.s.) Jerúsalem hert. 70 | 21.v.s. |
| F | 9 | | |
| L | 10 | | |
| | | **Sonur ekkjunnar í Nain.** Lúk. 7. | |
| S | 11 | 16. s. e. trín. | |
| M | 12 | fyrsta kv. 12.11 f. m. | |
| Þ | 13 | Bretar taka Quebec 1759 | |
| M | 14 | | |
| F | 15 | | 22. vika sumars |
| F | 16 | Moscow-borg brend 1812 | |
| L | 17 | | |
| | | **Vatnssjúki maðurinn.** Lúk. 14. | |
| S | 18 | 17. s. e. trín. Garfield forseti d. 1881 | |
| | | F. t. 8.52 f. m. | |
| M | 19 | Imbrudagar. Sæluvika | |
| Þ | 20 | Walter Scott d. 1832 | |
| M | 21 | | Haustmánuður |
| F | 22 | | 23.v. sumars |
| F | 23 | Jafndægur; haust byrjar — Sn. Sturluson d. 1241 | |
| L | 24 | | |
| | | **Hvers son er Kristur?** Matt. 22. | |
| S | 25 | 18. s. e. trín. Björn Gunnlögsson f. 1788 | |
| M | 26 | Síð. kv. 12.45 f.m. | |
| Þ | 27 | Fyrsta járnbraut fullgerð á Englandi 1825 | |
| M | 28 | | |
| F | 29 | Mikaelsmessa | 24. vika sumars |
| F | 30 | | |

## OKTÓBER hefir 31 dag 1910

| | | |
|---|---|---|
| L 1 | | HAUSTMANUÐUR |
| | Limafallssjúki maðurinn. Matt. 9. | |
| S 2 | 19. s. e. trín. | |
| M 3 | ● N. t. 12.32 e.m. | |
| Þ 4 | | |
| M 5 | | |
| F 6 | Eldadagur. Tennyson d. 1892 | 25. v. sum. |
| F 7 | | |
| L 8 | | |
| | Brúðkaupsklæðin. Matt. 22. | |
| S 8 | 20. s. e. trín. | |
| M 9 | | |
| Þ 10 | ☾F. kv. 5.40 e. m. | |
| M 11 | Columbus fann Ameríku 1492 | |
| F 12 | | 26. v. sumars |
| F 13 | Kalixtusmessa | |
| L 14 | Gregoríska tímabilið innleitt 1582 | |
| | Konungsmaðurinn. Jóh. 4. | |
| S 15 | 21. s. e. trín. | |
| M 16 | | |
| Þ 17 | Lúkasmessa — ☺ F. t. 6.24 e. m. | |
| M 18 | Jónatan Swift d. 1745 | |
| F 19 | | Veturnætur af 27. v sumars |
| F 20 | | |
| | | Gormánuður |
| L 21 | Jón Espólín f. 1769 | Vetrard. fyrsti 1.v.vetr. |
| | Hinn skuldugi þjónn, Matt. 18. | |
| S 22 | 22. s. e. trín. | Wm. Penn steig á land í Ameríku 1681 |
| M 23 | | |
| Þ 24 | ☽Síð. kv. 9.48 f. m | |
| M 25 | | |
| F 26 | Síra Hallgr. Pétursson d. 1674 | |
| F 27 | Howard háskólinn stofnsettur 1636 | |
| L 28 | | 2. v. vetra |
| | Skattpeningurinn. Matt. 22. | |
| S 29 | 23. s. e. trín. | |
| M 30 | Reformazíón Lúters 1517 | |

## NÓVEMBER hefir 30 daga 1910

GORMANUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | Allra heilagra messa | |
| M | 2 | Allra sálna messa | ● N. t. 5. 56 f. m. vetrartungl |
| F | 3 | | |
| F | 4 | | |
| L | 5 | | 3. v. vetrar |

**Jesús predikar um sælu,** Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 24. s. e. trín. | |
| M | 7 | | |
| Þ | 8 | | |
| M | 9 | Skúli landfógeti d. 1794 | Edward Bretak. f. |
| F | 10 | ☾ F. kv. 9. 29 f. m. | Lúter f. 1483 |
| F | 11 | Marteinsmessa | |
| L | 12 | | 4. v. vetrar |

**Viðurstygð eyðileggingarinnar,,** Matt. 24.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 25. s. e. trín. | |
| M | 14 | | |
| Þ | 15 | | |
| M | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| F | 17 | Sues-skurðurinn opnaður 1869 | |
| F | 18 | | |
| L | 19 | | 5. vika vetrar |

**Eg þakka þér, faðir,** Matt. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 26. e. s. trín. | Ýlir |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | | |
| M | 23 | ☽ Síð. kv. 11. 13 e. m. | |
| F | 24 | | |
| F | 25 | Katrínarmessa | |
| L | 26 | Konráðsmessa | 6. v. vetrar |

**Krists innreið í Jerúsalem.** Matt. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 1. s. í jólaföstu. Aðventa | |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | | |
| M | 30 | | |

## DESEMBER hefir 31 dag 1910

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | Ýlir |
| F | 1 | Eggert Ólafsson f. 1726 | |
| F | 2 | 🌑 Nýtt t. 1.10 f. m. | |
| L | 3 | | 7. v. vetrar |

**Teikn á sól og tungli.** Lúk. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | 2. s. í jólaföstu | |
| M | 5 | Mozart d. 1791 | |
| Þ | 6 | | |
| M | 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 | |
| F | 8 | Maríumessa | |
| F | 9 | ☾ F. kv. 11.05 e. m. | Milton f. 1608 |
| L | 10 | | 8. v. vetrar |

**Jóhannes í böndum.** Matt. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 3. s. í jólaföstn | |
| M | 12 | | |
| Þ | 13 | Lúcíumessa | |
| M | 14 | Imbrudagar. Sæluvika. | Washington d 1799 |
| F | 15 | | |
| F | 16 | 🌕 F. t. 3.05 e.m. | |
| L | 17 | | 9. vika vetrar |

**Vitnisburður Jóhannesar skírara.** Jóh. 1.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 4. s. í jólaföstu | |
| M | 19 | | |
| Þ | 20 | | Mörsugur |
| M | 21 | Tómasmessa | |
| F | 22 | Sólhvörf; skemstur dagur | |
| F | 23 | Þorláksdagur | |
| L | 24 | Aðfangadagur jóla. Nóttin helga. | 10. v. vetrar |

**Krists fæðing,** Lúk. 2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | Jóladagur | |
| M | 26 | Annar í jólum | |
| Þ | 27 | | |
| M | 28 | | |
| F | 29 | Gladstone f. 1809 | |
| F | 30 | Bjarni Thórarensen f. 1786 | |
| L | 31 | 🌕 N.t.8.21e.m. jólat. Gamlársdagur. | 11. v. v. |



Inngangur í Almannagjá.

# Almanak.

16. ár. Winnipeg 1910

## GÍSLI ÓLAFSSON.

—



INN þeirra mann, er uppi hafa verið með Vestur-Íslendingum og lengi mun minst að öllu góðu, er Gísli kaupmaður Ólafsson, sem féll frá síðastliðið sumar, og mátti heita maður á bezta aldri. Hann hefir orðið mörgum manni harmdauði fyrir sakir mannkosta og góðrar viðkynningar, en skarð fyrir skildi í hópi vestur-íslenzkra umsýslumanna og framkvæmdar-frömuða í þeim efnum, er mega til heilla horfa.

Gísli Ólafsson var fæddur í Landamótsseli í Ljósavatnsskarði í Suður-Þingeyjarsýsln 1. júní 1855 Hétu foreldrar hans Ólafur Ólafsson og Rannveig Sveinbjarnardóttir. Þegar hann var þriggja ára, fluttust foreldrar hans að Hjalla í Reykjadal. Mannsefni hið bezta mun hann þegar hafa þótt á nppvaxtarárum. Sézt það bezt á því, að þegar hann fer úr föðurgarði árið 1877, að eins tuttugu og tveggja ára gamall, gerist hann ráðsmaður á Héðinshöfða á Tjörnesi með Benedikt sýslumanni Sveinssyni. Þar mun hann hafa verið 3—4 ár; fór þaðan haustið 1881 og stundaði nám við gagnfræðaskólann á Möðruvöllum í Hörgárdal.

Hugur hans hneigðist helzt til búfræði, að líkindum

vegna þess honum hefir fundist fósturjörðin þurfa mest á góðum búmönnum að halda, er komið gæti landbúnaðinum í betra horf með því að auka þekking sína og semja búskap sinn meir eftir því, sem tíðkast með öðrum þjóðum. Þeir, er síðar á æfinni kyntust Gísla, munu renna grun í, að í æsku hafi hann brunnið af löngun eftir að verða að liði. Svo var starfslöngunin mikil og hugurinn stór til alls konar framkvæmda.

Sumarið 1882 ferðaðist hann um Norður-Þingeyjarsýslu með Halldóri Hjálmarssyni, búfræðing, er síðar fluttist vestur um haf eins og kunnugt er, og gjörðist bóndi í Norður-Dakota, í íslenzku bygðinni fögru í Pembina County,—hinn mesti atorku- og merkis-maður í öllu, nú nýlátinn til þess að gjöra, og varð aldurinn hvorugum að meini. Féll vel á með þeim Gísla og honum og var Gísli við búfræðisnám með Halldóri næsta vetur.

Sumurin tvö næstu þar á eftir ferðaðist Gísli um Norður-Þingeyjarsýslu til að leiðbeina bændum í búnaði. En fundið mun hann hafa til þess þá, að hann í ýmsum efnum brast nauðsynlega þekkingu, til þess að geta leyst slíkt ætlunarverk eins vel af hendi og hann vildi. Þess vegna stóð hugur hans til útlanda, til þess hann mætti kynnast búskapar aðferð og lifnaðarháttum erlendra þjóða og færa sér í nyt, fósturjörð sinni til hagnaðar og þrifa. Fór hann því vorið 1885 til Skotlands til að kynna sér búnaðarháttu skozku bændanna, sem víðast eiga við fremur ófrjóan jarðveg að etja, og verða á að taka með hyggindum, þekkingu, atorku og þolinmæði til að knýja nízka náttúru ættjarðar sinnar að láta þeim laust úr kreptum knefum það, sem til þarf. Þar dvaldi hann rúmt ár, og hvarf síðan heim aftur.

En þá var árferði með örðugasta móti á Íslandi. Ameríkuhugur geisaði þá yfir Norðurland í algleymingi.

Nýr áhugi var vaknaður með fólki til að bæta kjör sín og ryðja nýjar brautir. Því fundust þau kjör, er menn lengi höfðu átt við að búa, svo þröng, að eigi væri viðvært



GÍSLI ÓLAFSSON.

lengur. Skórinn krepti óvenju sárt að í viðskiftalífinu. En fregnir fremur góðar bárust til Íslands af þeim, sem þegar höfðu gjörst svo djarfir að rífa sig upp úr fornhelgum átthögum, flytjast vestur um ver og leggja þar til

nýrrar atlögu í baráttunni fyrir tilverunni, á líkan hátt og landnámsmenn forðum gjörðu á Íslandi.

Á þann hátt atvikaðist það, að ýmsir hinna vænlegustu yngri mann hurfu um þetta leyti til Ameríku, þrátt fyrir brennandi áhuga fyrir heill og hag fósturjarðar sinnar. Árið 1886, þegar fólksflutningurinn mikli varð af Íslandi, einkum úr norður sveitum landsins, fluttist Gísli Ólafsson með foreldrum sínum til Ameríku. Var hann einn af mörgum, sem hin mesta eftirsjá var að, því eitthvert grettistak, gott og þarflegt, mundi eftir hann hafa legið, hvar sem hann hefði til náð.

Þegar hingað vestur kom, fór Gísli fyrst til Dakota, en síðan til Argyle og vann þar bændavinnu. Að því búnu fór hann austur til Keewatin og vann þar að brautarlagning. Þar er grjót mikið og urð yfir að fara; varð að sprengja kletta í loft upp. Var sú vinna all-hættuleg. Stundum varð að standa í vatni upp í mitti í frostum. En Gísli var sérlega vel hraustur til heilsu og kveinkaði sér ekki. En stöku sinnum kvaðst hann hafa fundið til gigtar næstu ár og kendi það þessari vosbúð, sem margan mann annan myndi hafa gjört heilsulausan.

Eftir þetta settist Gísli að í Winnipeg og byrjaði kjötverzlan í félagi við Jón Jónasson Landy, (d. 14. des. 1902). Hafði hann 300 dollars til að leggja í það fyrirtæki, er hann hafði unnið sér inn með daglaunavinnu. Við verzlan þessa var hann eitt ár, en leizt ekki á að hepnast myndi, sleit þá félagsskapnum og mun hafa gengið hér um bil slyppur frá þessu fyrsta kaupsýslu-fyrirtæki sínu.

En eigi var hugur hans bilaður að neinu, þó eigi hefði betur gengið. Hann hóf þegar annan kaupskap á nýjum stað. Árið 1889 byrjaði hann mjölverzlan og fóðursölu í smáum stíl á King stræti. Hepnaðist hún þegar vel og færðis út og jókst ár frá ári. Þeir, sem eitt sinn

gjörðust skirtavinir, hurfu eigi frá aftur. Fekk hann brátt bezta orð sem áreiðanlegur og réttlátur viðskiftamaður. Fanst flestum, sem við hann skiftu, að það að þekkja hann og kynnast honum væri sama og að láta sér verða vel til hans.

Árið 1890, 19. maí um vorið, kvongaðist Gísli og gekk að eiga jungfrú Elínu Sigríði Jónsdóttur. Voru foreldrar hennar þau Jón Jónsson, snikkari, og Guðfinna Jónsdóttir á Hornbrekku í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Þá um haustið keypti Gísli fyrstu fasteign sína í Winnipeg. Var það *terrace* svo-nefnt á Williams-stræti,—íbúðarhús með flötu þaki til útleigu, með íbuðum handa þremur fjölskyldum. Eign þessa keypti hann með tilstyrk af fé dálitlu, er kona hans átti á vöxtum, er hún giftist. Húsmuni þá, er til búsins þurfti, keypti hún líka fyrir eigið fé sitt, til þess hann þyrfti ekki að draga neitt frá verzlaninni, sem hann nú leitaðist við að auka og færa út af öllum mætti. Húseign þessa á William-stræti endurbætti hann, svo hún varð þeim hjónum bezta eign og ágætur búbætir.

Árið 1895 reisti Gísli í búðarhús sérlega vandað á William-stræti milli Kate og Juno-stræta. Það var eigi stórhýsi eftir því, sem nú gjörist, en svo snoturt og vel frá því gengið að öllu leyti sem bezt mátti. Var það langbezta húsið, er nokkur Íslendingur átti þá í bænum, og af byggingarfróðum mönnum innlendum álitið vandaðasta hús í vesturhluta bæjarins. Var þá vinum þeirra hjóna yndi að koma til þeirra, skoða híbýlaprýði þeirra og dást að, en beztar voru þá ávalt viðtökurnar sjálfar og hjartalagið, hið ástúðlegasta af beggja hálfu.

Árið 1900 festi Gísli kaup í hornlóð á King stræti. Var þar gömul búðarbygging fremur léleg, er hann notaði fyrir verzlun sina í tvö ár. Þá (1901) reisti hann stór-

hýsi það, sem þar stendur enn, og hann mun hafa flutt inn í um nýár 1902 og ber nafn hans—*Olafson Block.* Í því eru íbúðir fyrir 18 fjölskyldur. En neðsta gólf alt ætlað til verzlunar nota. Það notaði hann alt einn og veitti ekki af plássi, þó rúm sýndist mikið í samanbnrði við það, sem hann hafði áður haft. Eigi vantaði fólk, er leigja vildi á þessum hentuga stað og hefir eign þessi reynst hin arðsamasta.

En þó vel gengi verzlanin, var þó lífið eigi stríðlaust, eins og gengur, fremur þeim hjónum en öðrum. Þau eignuðust dóttur eina barna, hinu efnilegustu stúlku, sem nú er eina yndi móður sinnar. En heilsa hennar var nokkur ár í hinni mestu hættu. Reyndi þá á þolinmæði foreldranna stórkostlega, en til einkis var sparað, sem efni og örlæti gátu í té látið, og var helzta læknis í landinu vitjað hvað eftir annað, til þess að bægja frá hættunni. Enda tókst það með nákvæmni og þrautseigju.

Þó virtist líf frú Elínar sjálfrar vera í enn meiri hættu statt um langan tíma. Varð hún tveim sinnum að leita burtu suður í ríki langar leiðir og dvelja tíma all-langa á heilbrigðisstofnan til að afla sér heilsubótar. Þurfti til þess kjark mikinn og áræði af hálfu þeirra hjóna beggja, því að minsta kosti annað skiftið voru veikindin á svo háu stigi, að eigi virtust nema litlar líkur til, að þau fengi aftur að sjást í lifanda lífi. En hér var enn alt í sölur lagt, sem til þurfti og ekkert sparað, sem unt var að veita sér. Enda komst frú Elín til hetri heilsu aftur en hún sjálf hafði gjört sér í hugarlund og nýtur hennar enn.

Loks kom röðin að sjálfum honum, sem notið hafði hinnar beztu heilsu öll þessi ár, aldrei kent neins meins og ekki orðið misdægurt, hvað sem á gekk. Árið 1906, 28. janúar um veturinn, fekk Gísli heitinn slag og misti

alt afl hægra megin í líkamanum. Lá hann rúmfastur, þangað til um miðjan marz. Tók hann þá að klæðast, en var lengi að frískast, og náði aldrei sömu heilsu. Þá um vorið keypti hann þeim hjónum sumarbústað niður við Winnipeg-vatn, á *Whytewold Beach*, með fram til þess að geta þar sjálfur notið hressingar yfir sumarið og látið heilsu sína styrkjast. Konu sína og dóttur lét hann vera þar hvert sumar síðan og sjálfur var hann þar með þeim eins oft og annir leyfðu. En kaupsýslu-hugurinn batt hann við bæinn, svo hann gaf sér tíma all-lítinn til hvíldar og næðis.

Fyrir átta árum keypti Gísli 700 ekrur af skógarlandi austur með Winnipeg River, 60 mílur hér um bil frá Winnipeg, fyrir 50 þúsund dollara. Voru það stór kaup og urðu honum tilfinnanleg byrði. Í landareign þessa var hann búinn að leggja ein 30 þúsund. Reyndi hann að selja það hvað eftir annað, en hepnaðist ekki. Mikill og verðmætur skógur er á landi þessu, sem ógrynni fjár mætti hafa úr með því að saga niður í efnivið og selja til húsagjörðar, en til þess þarf líklega meiri efni en nokkur Íslendingur á enn yfir að ráða

Árið 1907 lét Gísli Ólafsson reisa íbúðarhús prýðilegt á horni McDermot og Nena stræta. Það er úr ljósleitum tígulsteini og er eitt af allra-vönduðustu húsum í norðurbænum, stórt og rúmgott, gjört úr dýru efni, vandað sem bezt má verða og hið kostulegasta að öllu. Mun það hafa kostað yfir 20 þúsund doll.

Eins og fram er tekið áður, náði heilsufar Gísla sér aldrei til fulls eftir áfallið 1906. Samt hugsaði hann og starfaði líkt og áður, en mun hafa til þess fundið, að hann var eigi með fullu fjöri og kröftum. Skömmu eftir áfellið, seldi hann þeim Jóni Ólafssyni og Stefáni Sveinssyni verzlan sína, sem þeir hafa rekið síðan. Eftir það hafði

hann minna umsýslu, en þó ávalt eitthvað fyrir stafni og nóg um að hugsa, því án þess gat hann ekki verið.

Flestum mun koma saman um, að Gísli Ólafsson hafi verið einn allra-vinsælasti Íslendingur í bæ þessum. Um hann virtist enginn hafa neitt nema gott að segja. Viðmótið veitti tiltrú til mannsins, þegar við fyrstu viðkynningu. Menn urðu þess þegar varir, að hann hafði góðan mann að geyma. Það var eins og hann hugsaði gott eitt og hefði því ávalt gott eitt að segja og gott eitt að leggja til mönnum og málefnum. Hann var maður orðvar og fáskiftinn um annarra hagi. Þyrfti einhver á að halda, var hann hinn raunbezti og höfðingi í lund í hvívetna. Alt gott var hann ávalt boðinn og búinn tíl að styðja með örlæti og risnu. Hann var heimilisfaðir einn hinn ágætasti, og heyrði hann hálfyrði falla af vörum konu eða dóttur, um eitthvað, sem hugurinn girntist, var það ávalt þegjandi komið heim til þeirra í fullkomnustu mynd áður þær varði. Gísli var miklu bókhneigðari maður en alment gjörist, en lífið leyfði honum eigi nema lítinn tóm til lestrar; samt las hann mikið í blöðum og tímaritum og las vel. Mest unni hann því, sem íslenzkt var, og með þjóðræknustu Íslendingum vestan hafs var hann til dauðadags.

Gísli Ólafsson varð bráðkvaddur í húsi sínu laugardagskveld 8. ág. 1909. Var hann þar einn, því kona hans og einkadóttir, Alpha, voru niður á Whytewold-Beach í sumarbústað þerrra. Höfðu þær átt hans von um þessa helgi og farið jafnvel til móts við hann á brautarstöð, en hann eigi getað komist einhverra hluta vegna.





Baðstofa á Íslandi.

## HVAÐ ER FÖÐURLANDIÐ?

Þegar Hákon Noregskonungur var vígður undir kórónu í Kristskirkju í Niðarósi, sumarið 1906, kom biskupinn sem vígsluræðuna hélt með þessa spurningu, og svaraði henni á þá leið:

Föðurlandið! — Það er reiturinn, sem hann faðir þinn ruddi.

Það er kofinn, þar sem hún móðir þín vann baki brotnu og átti margar andvökunætur vegna barnsins síns elskaða, þar sem hún grét yfir því og bað til guðs fyrir því.

Það er særinn, blikandi og brimsollinn, vitaðsgjafinn mikli og dánarreitnrinn stóri, þar sem ástvinir vorir þúsundum saman hvíla á kaldri og votri þarasæng.

Það er fjallið með fönnum og flám, með himinháum tindum og hyldjúpum vötnum, með fjörgandi og angandi blæ sumarsins og æðibyljum vetrarins.

Það er grundin og dalurinn og ströndin, það er bygðin og bærinn, þar sem ættin forna hefir átt sér bólstað, hefir lifað lífi sínu mann eftir mann, og háð sitt stríð uns hné að velli.

Þetta alt er þá föðurlandið með þúsundum heimila:

Föðurlandið, — dýrasti fjársjóður vor á jörðu.

Föðurlandið, — sem feður vorir létu lífið fyrir, og vér sjáifir viljum verja meðan blóð rennur í æðum. (Lesbók II.)

# Íslenzkur Sherlock Homes.

(Eftir J. Magnús Bjarnason).

ÞEGAR eg les æfintýri Sherlock Homes eftir A. Conan Doyle, þá hugsa eg æfinlega til Íslendings nokkurs, sem eg kyntist ofurlítið í æsku í Nýja Skotlandi. Hann hét Hallur, þessi Íslendingur og var Þorsteinsson, ef eg man rétt, og var rúmlega tvítugur, þegar eg kyntist honum. Ekki veit eg með neinni vissu, hvaðan af Íslandi hann var, en samt nygg eg, að hann hafi verið ættaður af Austfjörðum, því eg vissi til þess, að hann skrifaði tvívegis bréf til konu, sem átti heima á Djúpavogi. — Eg segi, að eg hugsi jafnan til þessa manns, þegar eg les æfintýri Sherlock Homes, og kemur það til af því, að hann er sá eini Íslendingur, sem eg hefi þekt, er að minni hyggju var gæddur þeim hæfileikum, sem nauðsynlegir eru til þess, aö geta verið slunginn njósnari, eða leynilögregluþjónn. Og hefði hann hlotið sæmilega mentun og fengið tækifæri til að æfa og efla hinar meðfæddu gáfur sínar og hæfileika, þá hefði það sannast, að hann hefði ekki staðið langt að baki Sherlock Homes sem njósnarmaður. Og því til sönnunar vil eg segja frá dálitlu atviki, sem hann var viðriðinn—atviki, sem í sjálfu sér var ekki mjög stórvægilegt eða markvert, en getur þó sýnt, að álit mitt á manni þessum er á dálitlum rökum bygt. En áður en eg byrja að segja frá þessu atviki, ætla eg að gefa ofurlitla lýsing á Halli.

Hann var langt frá því að vera líkur Sherlock Homes í sjón og vexti. Og engum skáldsagna-höfundi hefði dottið það til hugar, að hafa hann til fyrirmyndar í lögregluspæjara-sögu, hvorki sem njósnara né stórglæframann. Því Hallur var allra manna minstur vexti og allra

manna óálitlegastur ásýndum, en þó meinleysislegur. Augun voru greindarleg og fremur góðleg, en þau voru smá, og augnalokin huldu þau jafnan meira en til hál s, Hann var höfuð-stór, ákaflega langleitur og niðurlútur. Hægfara var hann og oftast þögull og þegjandalegur. Það leyndi sér ekki, að hann var forvitinn, þó langt væri frá því, að hann væri spurull. Hann lagði sjaldan spurningar fyrir menn, en samt var eins og hann kæmist auðveldlega að leyndarmálum manna og græfi upp alt, sem leynt átti að fara, án sýnilegrar fyrirhafnar. Stálminnugur var hann, eins og Macaulay lávarður, og framúrskarandi glöggþekkinn á menn, Þegar kann kom á mannamót, stóð hann jafnan utarlega, og það var eins og enginn yrði hans var; hann var alt af eins og út í horni, hvar sem hann var staddur, en þó var auðséð. að hann veitti öllu, sem fram fór í kringum hann, mjög nánar gætur. Hann hafði gaman af skáktafli — það var sú eina skemtun, sem hann virtist taka þátt í — og menn sögðu að hann væri góður taflmaður. Hann var dável að sér í reikningi, og hafði þó fengið mjög litla tilsögn í þeirri grein, og hann var slunginn að ráða flóknar gátur, og virtist hafa mikið yndi af því. Ekki virtist hann gleðjast yfir hamingju annarra, og hrygðist ekki, svo sjáanlegt væri,af óhöppum nokkurs manns. En það eitt er þó áreiðanlegt, að hann vildi ekki troða neinum manni um tær, og lagði engum ilt til.

Hallur var lítið á meðal Íslendinga eftir að hann kom til Ameríku. Hann var oftast hjá hérlendum bændum, fyrst framan af að minsta kosti, og vann oft fyrir mjög lágu kaupi. Mörgum þótti hann undarlegur og sérvitur, en flestum var vel til hans, og höfðu jafnan gaman af hinum stuttu, hálf-hryssingslegu svörum hans. Eg man, hvað menn hlógu dátt að því, sem hann sagði, þegar það kom í blöðunum, að hefðarfrú ein í Halifax hefði mist demants-brjóstnál, einusinni þegar hún var á grímuleik.

,,Það hefir verið ungur ekkjumaður, sem stolið hefir brjóstnálinni þeirri'', sagði Hallur við kunningja sína.

Menn hlógu þá, eða grettu sig, og álitu þetta heimsku-fleipur. En tveim árum síðar ráku þeir hinir

sömn upp stór augu, því þá komst það upp, að einmitt *ungur ekkjumaður* hefði stolið brjóstnálinni. Hvort Hallur hefir bygt þessa staðhæfing sína á nokkru sérstöku, eða að eins sagt þetta blátt áfram að gamni sínu hugsunarlaust, um það get eg ekki borið. En mörgum þótti það skrítið.

Einusinni kom ókunnugur maður þangað, sem Hallur átti heima, og bað að gefa sér að drekka, og spurði til vegar.

,,Hvaða maður skyldi þetta vera?" sagði einhver, þegar ókunni maðurinn var farinn.

,,Það er strokumaðnr, sem einhvern tíma hefir verið bókhaldari, sagði Hallur.

,,Hvernig veiztu það?" var spurt,

,,Eg sá það á augunum í honum, að hann var á flótta, en á fingrunum á hægri hönd hans, að hann hefir verið bókhaldari", sagði Hallur.

Menn tóku lítið mark á þessu, þá í svipinn, en fám dögum síðar kom það í ljós að Hallur hafði getið rétt til um manninn.

Hallur kom einusinni til íslenzku nýlendunnar á Mooselands-hálsum. Það var um haust. Hann dvaldi fáeina daga þar sem eg átti heima, og okkur drengjunum þótti hann næsta kynlegur. Eg man það, að hann gekk einn morgun með mér og tveimur öðrum drengjum ofan á veginn, sem lá í gegnum nýlenduna. Við tókum þá eftir því, að einhver hafði ekið um veginn, þá um morguninn, því við sáum nýleg hjólför; og við drengirnir, gátum þess til, að maður nokkur sem við nefndum, hefði ekið austur að sjó þenna morgun.

,,Þessi hjólför eru eftir tvíhjólaðan léttivagn, sem komið hefir að austan", sagði Hallur, ,,og *maður* hefir gengið fyrir honum. en ekki nein ferfætt skepna"

Við athuguðum nú þetta betur, og þóttumst sjá að Hallur hefði rétt fyrir sér, því hvergi sáust nýleg för eftir hest eða uxa, en það vottaði fyrir mannaförum hér og þar.

,,Hver skyldi þetta hafa verið? spurðum við drengirnir hver annan.

,,Að líkindum *pedlar* ( farandsali )", sagði Hallur

lendunnar árið 1887: — Sigurður bróðir Jóns Sigurðssonar nam land, en dó eftir 1 eða 2 ár. — Einar Kristjánsson frá Nesi í Borgarfjarðarsýslu, flutti eftir fá ár til Narrows. — Bjarni Kristjánsson fra Núpi í Dýrafirði, fór til Narrows, og Guðm. Björnsson fró sama bæ. — Kr. Helgi Kristjánsson nam ei land (er nú í Selkirk. — Jóhann Þorgeirsson og hálfbróðir hans Gunnar, báðir frá Nesi í Loðmundarfirði í Norður-Múlas., búa nú í Dakota. — Jón Mathíasson frá Hergilsey á Breiðafirði og synir hans þrír: 1. Sveinn býr nú í bygðinni, giftur Kristínu Jónsdóttur Líndal; 2. Snæbjörn dó fyrir fám árum, en bjó til æfiloka í bygðinni; 3. Ástráður dó í Klondyke. — Sigurður Sigurðsson úr Breiðafirði, býr enn í bygðinni; kona hans er Sigríður systir þeirra Jóns og Skúla Sigfússona, er áður er frá sagt. — Jón Valdimar Jónsson, Þingeyingur, og bræður hans tveir, Páll og Þorsteinn; fluttu vestur um haf frá Egilsstöðum í Vopnafirði, námu eigi land; fóru til Bandaríkjanna. — Jón Methúsalemsson, er áður er nefndur, með sonum sínum, nam ei land. — Jón Þorsteinsson frá Keðjubóli í Norðfirði, nam ei land. — Hinrik Jónsson frá Ísafirði, býr nú í Pipestone-bygð.

Þessir komu allir fyrsta og annað árið í bygðina, og ýmsir fleiri, er fylgdust með Á. Freeman, og verður frá þeim sagt í þætti Grunnavatns-bygðar.

Vorið 1889 fluttu í bygðina Árni Jónsson Reykdal, sonur Jóns bónda Kristjánssonar á Kjalvararstöðum í Reykhoitsdal. Móðir Árna var Kristín Einarsdóttir frá Grímsstöðum í sömu sveit. Kona Árna er Helga Jónsdóttir bónda Jónssonar í Deildartungu; en móðir Helgu var Guðrún Böðvarsdóttir Sigurðssonar frá Skáney í Reykholtsdal. Eru þau hjón bæði af Mýramanna ætt. Son eiga þau, er Páll heitir, og mun hans síðar getið. Dóttir þeirra, Kristín, er gift Ramsey kaupmanni enskum í Stonewall.

Högni og Eiríkur (bræður), synir Guðmundar Eiríkssonar, er lengi bjó í Kjólsvík í Norður-Múlasýslu. Móðir þeirra var Sesselja Högnadóttir. Þeir búa enn í bygðinni góðu félagsbúi; nefna þeir bæ sinn í Laufási. Kona Högna er Guðný Jónsdóttir bónda Jónssonar, er lengi bjó á Ketilsstöðum í Hjaltastaðaþinghá í N.-Múlasýslu. — Stefán Björnsson, frá Litlabakka í N.-Múlasýslu. Kona hans er Guðríður Björnsdóttir Hannessonar frá Hnitbjörgum í N.-Múlasýslu. Nefnir hann bæ sinn Skógargerði. — Pétur Runólfsson, bónda Péturssonar frá Hrollaugsstöðum. Kona hans Pálína, er alsystir nýnefndrar Guðríðar. — Ísleifur Runólfsson, ættaður af Suðurlandi; flutti vestur í land, en er nú dáinn. — Árni Jónsson, frá Hnefilsdal á Jökuldal, nú dáinn. Kona hans Emilia býr enn í bygðinni, gift Sigfúsi Eyjólfssyni. — Eiríkur Magnússon frá Brekkuseli í Hróarstungu í N.-Múlasýslu, og sonur hans Júlíus. Kona Eiríks er Guðrún Hallgrímsdóttir frá Fremraseli í sömu sveit.. Kona Júlíusar er systir St. Björnssonar frá Litlabakka, er áður er frá sagt. — Björn Jónsson frá Eyjaseli í Jökulsárhlíð, bróðir Guðnýjar konu Högna Guðmundssonar, sem áður er nefndur. Kona hans, Guðrún Pálsdóttir Sigurðssonar umboðsmanns á Eyjólfsstöðum í S.-Múlasýslu. Björn varð að fá 100 kr. lán til að komast vestur. Nú á hann og synir hans tveir er fullorðnir eru, eitt bezta búið í bygðinni og tvö lönd, hafa keypt annað, og auk þess hafa synir hans tveir fest sér heimilisréttarlönd síðastliðið ár. — Hallgrímur Ólafsson frá Nesi í Loðmundarfirði. Kona hans er Vilhelmína Vigfúsdóttir úr S.-Múlasýslu. Hann hefir keypt land, en ekki enn fengið heimilisréttarland. — Bergþór Jónsson af Möðrudalsfjöllum; kona hans Vilhelmína Eyjólfsdóttir timburmanns úr Norðfirði. — Guðmundur Bjarnason úr Vopnafirði; kona hans Eyjólfína, systir nýnefndrar Vilhelminu konu Bergþórs;

eru þær hálfsystur Eyjólfs Eyjólfssonar í Winnipeg, er nefndur er hér að framan. — Jóhann Þorsteinsson bónda Ólafssonar frá Engilæk í N.-Múlasýslu; kona hans er Steinunn Árnadóttir bónda Jónssonar í Gilsárteigshjáleigu í Borgarfirði í N.-Múlasýslu. Jóhann kom frá Winnipeg og hafði dvalið þar um nokkur ár. — Jón Líndal, sonur Jónadabs Grímssonar er lengi bjó á Búrfelli í Húnavatnssýslu, og Kristínar Jónsdóttur frá Sauðadal í sömu sýslu. Kona hans Ingibjörg Tómasdóttir. Komu frá Dakota og sonur þeirra Jón Líndal, nú kaupmaður í Álftavatnsbygð. — Jósef Líndal, bróðir Jóns Líndals eldra. — Pétur J. Hallsson, ættaður að sögn úr Skagafirði. Kona hans heitir Gunnvör. — Jón Bjarnason úr Laxárdal í Húnavatnssýslu, kona hans Helga Þorláksdóttir og tengdasonur hans Steinn Dalmann, búa enn í bygðinni. — Guðlaugur Jónsson, fór burt aftur.—Páll Kjærnested, Eyfirðingur, nam ei land, Hann flutti til Narrows og verður getið í þætti þeirrar bygðar.

Þessir voru landnámsmenn bygðarinnar fyrstu 3 árin. En ekki getur sá, er þetta ritar, fullyrt að rétt sé frá skýrt, hvaða ár hver kom, því sögnum um það ber eigi öllum vel saman.

Svo má kalla, að allan áratuginn frá 1890 til 1900 væri óslitin landnámstíð í Álftavatnsbygð, því þegar stjórnin fór að gefa loforð um járnbraut þangað og vegalagning í bygðinni, lifnuðu hugir manna, og þeir urðu fleiri er fýsti að leita sér þar bústaðar. Hér á eftir verða taldir flestir þeir er komu í bygðina á þeim áratugi, því ýmsir af þeim koma talsvert við sögu bygðarinnar og eru líklegir til að eiga þar nokkra æfisögu, og niðjar þeirra, og telur sá, er þetta ritar, því fróðlegt fyrir þá er síðar skrifa sögu bygðarinnar, að vita nokkur skil á sem flestum af þeim er bygðina gerðu að íslenzkri bygð, því söguþátt þennan skoðar höfundurinn

að eins sem minnisblöð fyrir seinni tíma söguritara.

Frá Winnipeg fluttu á þessu tímabili: Eiríkur Jónsson Hallssonar bónda frá Móseli í Jökulsárhlíð og Ingibjargar Sæbjörnsdóttur frá Hrafnabjörgum , Hjaltastaðaþinghá. Eiríkur kom til Ameríku 1889, og átti þá 75 cents og 2 börn; var í Winnipeg 6 ár og flutti til Álftavatnsbygðar 1894. Flutti hann eftir 2 ár til Grunnavatnsbygðar og var þar tvö ár, og flutti síðan aftur til Álftavatnsbygðar og nam þar land, og á nú laglegt bú vel hýstan bæ, og er byrjaður að yrkja land sitt. Kona hans var Jórunn Þorsteinsdóttir, systir Jóhanns Þorsteinssonar frá Engilæk, er áður er nefndur. Hún er nú dáin fyrir tveim árum.— Halldór Þorsteinsson, bróðir nýnefndrar Jórunnar og Jóhanns; kona hans Sigríður Eiríksdóttir bónda Jónssonar frá Márseli í Jökulsárhlíð, býr enn í bygðinni. — Jón Eiríksson bróðir Sigríðar hefir numið land vestur af Maidstone, Sask., en er lengst um hjá systur sinni og mági. Jón Eiríksson kom til Vesturheims frá Galtastöðum fremri í Hróarstungu í N.-Múlasýslu. Kona hans Sigríður Bjarnadóttir Jónssonar bónda Bjarnasonar í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð (sbr. þáttinn um Jón Sigurðsson). — Jón Sigfússon bónda Jónssonar frá Teigaseli. Móðir hans Guðrún móðursystir Jóns Sigurðssonar. Kona Jóns Sigfússonar (nú dáin) var Soffía Árnadóttir, systir Steinunnar konu Jóhanns Þorsteinssonar, er áður er nefndur. Jón Sigfússon var mörg ár mjólkurmaður í Winnipeg áður en hann flutti út, og hafði græðst þar talsvert fé. Með honum komu tveir fóstursynir hans, Þorsteinn Jóhannsson Þorsteinssonar er áður er nefndur, og Guðjón Jónsson. Þorsteinn keypti land og byrjaði verzlun, en hætti aftur og seldi landið, og flutti vestur fyrir Battleford, Sask., og nam þar land ásamt Guðjóni fóstbróður sínum

Guðmundur Guðmundsson, kom til Ameríku frá

Bakkagerði í Jökulsárhlíð. Kona hans er Mekkín Jónsdóttir Þorsteinssonar frá Sörlastöðum, sem áður er getið í þætti Jóns Sig; nefndi hann bæ sinn Borg. — Páll Guðmundsson póstafgreiðslumaður að Mary Hill P. O. Kona hans Sigríður Eiríksdóttir Hallssonar frá Hrærekslæk. — Sveinn Guðmundsson. Kona hans Þorbjörg Guðmundsdóttir skipasmiðs úr Fáskrúðsfirði. — Einar Guðmundsson. Kona hans Þórstína Þorsteinsdóttir Vilhjálmssonar frá Hjartarstöðum. Allir þessir síðasttöldu menn eru bræður, synir Guðmundar bónda Ásgrímssonar frá Hrærekslæk í Hróarstungu. Móðir þeirra bræðra Ingibjörg Sveinsdóttir; móðir hennar Gunnhildur dóttir Jóns hins sterka í Höfn (bróður Hjörleifs hins sterka — Hafnarbræður) í Bargarfirði — Jón Þorkelsson bónda Hannessonar frá Hnitbjörgum; kona hans Kristín Jónsdóttir bónda Þórðarsonar frá Fögruhlíð í Jökulsárhlíð. — Stefán Ólafsson bónda Rafnssonar frá N.-Skálanesi í Vopnafirði; kona hans Petra Vigfúsdóttir frá Ásbrandsstöðum í sömu sveit. — Björn Runólfsson Austmann; móðir hans var Guðbjörg Guðmundsdóttir, hálfsystir Magnúsar Eiríkssonar guðfræðingsins alkunna í Kaupmannahöfn; kona Björns er Margrét Jónsdóttir bónda Sigurðssonar frá Hnitbjörgum í Jökulsárhlíð. — Ólafur Jónsson bjó lengi á Stórabakka í Hróarstungu; var fyrst í Siglunessbygð, en nam síðan land í Álftavatnsbygð. Kona hans Guðrún Björnsdóttir bónda Pálssonar frá Stórabakka í Hróarstungu. — Jóhann Pálsson málari, sonur Páls Sigurðssonar; Páll var sonur Sigurðar Guðmundssonar umboðsmanns á Eyjólfsstöðum. Jóhann keypti tvö lönd er lönd voru í lægstu verði, fyrir 180 doll., og býr á þeim. Hann er ekkjumaður; kom frá Winnipeg og hafði dvalið um 20 ár víðsvegar í Ameríku. Jóhann er sjálfmentaður maður og á bókasafn stærra og fegurra en hér eru dæmi til á

bændaheimilum ,og þó víðar sé leitað; eru í því enskar og íslenzkar bækur, og nokkrar á ýmsum öðrum Norðurlandamálum. — Þórarinn Guðlaugsson Breckmann, sonur Guðlaugs Þorleifssonar og Karítasar Guðmundsdóttur, er lengi bjuggu að Klungurbrekku á Skógarströnd; kona hans Þorbjörg Einarsdóttir. Þórarinn kom frá Winnipeg, var í Indíána-stríðinu, er Riel var unninn, og keyrði vistir hermanna; var síðan nokkur ár kjötsali í Winnipeg. Hann er talinn einn af mestu efnamönnum bygðarinnar. — Hér skal einnig getið bræðra hans tveggja, þótt þeir kæmi eigi fyr en 1901: Kristján Breckman. Hann nam land, en brá búi og seldi land sitt, og er nú bókhaldari hjá Jóhanni kaupm. Halldórssyni á Oak Point. Kona hans er Guðrún Ólafsdóttir Freeman. — Guðmundur Breckmann. Hann nam land og keypti annað og býr þar, og er giftur Jakobínu Guðjónsdóttur Ísleifssonar, föður Ísleifs, er áður er frá sagt. Guðmundur hafði unnið víðsvegar með enskum bændum áður en hann flutti í bygðina. Þeir bræður komu til Ameríku 1883 og höfðu aðsetur í Winnipeg með móður sinni, sem enn lifir og er hjá Kristjáni. Kristján er hálfbróðir þeirra, sonur Guðmundar seinni manns Karítasar. Guðmundur Breckmann hefir átt mikinn og góðan þátt í félagsmálum bygðarinnar, því hann stendur þar flestum framar að félagslyndi og þekkingu. — Sigurður Jónsson frá Bygðarholti í Lóni. Flutti í bygðina úr Siglunessbygð. Sigurður er sonur Jóns hreppstjóra og Dbrm. í Bygðarholti Jónssonar prests á Kálfafellsstað. Kona Sigurðar er Guðrún Vigfúsdóttir frá Flatey á Mýrum. Móðir Sigurðar var Ragnheiður dóttir Gísla er bjó á Brekku í Lóni Arnarsonar prests Gíslasonar á Stafafelli — Magnús Ólafsson Freeman, sonur Ólafs Gunnarssonar frá Vatnshlíð í Skagafirði. Kona hans er Helga Jónsdóttir Sigurðssonar frá Ferstiklu í Borgar-

fjarðarsýslu. Kom í nýlenduna 1887 og staðnæmdist þar fá ár; flutti síðan til Narrows og bjó þar 11 ár. Síðan flutti hann aftur til Álftavatnsbygðar og nam þar land. — Magnús Gíslason Gunnarssonar Helgasonar úr Eyrarhrepp. Móðir Gísla var Guðrún Sigurðardóttir, síðar kona Halldórs snikkara á Ísafirði. Móðir Magnúsar var Guðrún Magnúsdóttir Einarssonar Sveinssonar í Hvallátrum við Breiðafjörð. Var Einar Sveinbjörnsson bóndi í Hvallátrum 1758. Kona Magnúsar er Þórdís dóttir Magnúsar Jónssonar og Bjargar Jónsdóttur, er bjuggu á Hamri á Barðaströnd. Magnús flutti vestur um haf frá Rauðeyjum í Breiðafirði 1893 og fór fyrst til Mountain í N.-Dak. 1894 flutti hann til Álftavatnsbygðar og nam þar land, g býr þar góðu búi. — Guðrún Jónsdóttir Matthíassonar, þess er áður er nefndur, frá Hergilsey, ekkja Böðvars Guðmundssonar frá Firði í Múlasveit. Hún misti mann sinn heima á Íslandi, hefir keypt land það hún býr á og nefnir bæ sinn á Grund. — Jón Jónsson frá Rauðseyjum kom frá Íslandi 1898 og settist að í Álftavatnsbygð, sonur Jóns Einarssonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur. Jón fluttist ungur til frænda síns Sturlaugs hins ríka í Rauðseyjum, og giftist frænku sinni Helgu Gísladóttur, en síðari kona Jóns var Anna Brynjólfdóttir. Jón er dáinn fyrir nokkrum árum og ekkja hans Anna gift Gunnari Einarssyni Nikulássonar frá Gíslastöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu. Gunnar flutti til Vesturheims 1873 og dvaldi 4 ár í Ontario; fluttist þaðan til Winnipeg og var til þess 1899, og var hann þar bæði mjólkursali og kaupmaður. Gunnar er þrígiftur. Fyrsta kona hans var Sigríður Guðmundsdóttir frá Manaskál í Húnavatnssýslu; önnur kona hans var Andrea Fischer, dóttir Hermanns Fischers kaupm. í Reykjavík, og 3. kona hans Anna, og búa þau nú á heimilisréttarlandi fyrra manns hennar. — Teitur Sig-

urðsson, bróðir Sigurðar Sigurðssonar, er áður er nefndur. — Guðmundur Þorleifsson; kona hans Vilborg Jónsdóttir. — Einar Þorleifsson; kona hans Guðríður Sigfúsdóttir Sigurðssonar frá Njarðvík í N.-Múlasýslu. Þeir eru bræður, synir Þorleifs bónda á Hrjót í Hjaltastaðaþinghá í N.-Múlasýslu. — Jón Hördal og sonur hans Jón Hördal, tengdasonur Jóns Sigfússonar er áður er getið. — Helgi Friðbjörnsson, Oddsson, Þingeyingur; kona hans Stefanía Torfadóttir bónda Jónassonar frá Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. — Bjarni Torfason bróðir nýnefndrar Stefaníu; kona hans Katrín Gissurardóttir úr Skaftafellssýslu. — Hávarður Guðmundsson snikkari Jónsson frá Sveinsstöðum í Norðfirði í S.-Múlasýslu. Móðir Hávarðar var Gunnhildur Ólafsdóttir Björnssonar frá Karlskála. Er föðurætt Hávarðar kölluð Hellisfjarðarætt. Hávarður er þrígiftur: fyrsta kona hans Helga Jónsdóttir Þorsteinssonar frá Kirkjubóli er áður er nefndur, en önnur kona Kristrún Sigvaldadóttir úr Laufássókn; var hún alin upp að mestu hjá frú Katrínu Havstein, móður Hanesar ráðherra; þriðja kona Hávarðar er Stefanía Sigurðardóttir Árnasonar frá Hólalandi í Borgarfirði. Hávarður er nú fluttur í Siglunessbygð.

Þorsteinn Þorkelsson kaupmaður á Oak Point kom frá Winnipeg og nam land skamt frá Oak Point, og stofnaði verzlun. Þorsteinn er fæddur á Márstöðum í Svarfaðardal. Faðir hans var Þorkell Þorsteinsson Þorsteinssonar Þorsteinssonar, og bjuggu þeir langfeðgar Þorsteins mestan sinn búskap á Márstöðum. Móðir hans Guðrún Jónsdóttir var komin af hinni svonefndu Tungufellsætt. Þorsteinn ólst upp í foreldrahúsum til þess hann var 16 ára. Fór þá til Akureyrar og varð "útlærður járnsmiður" eftir 3 ár hjá Sigurði járnsmið Sigurðssyni. Flutti aftur í Svarfað-

ardal og stundaði þar járnsmíði, og í Skagafirði líka. Giftist 1888 Helgu Grímsdóttur frá Egg í Skagafirði, og reisti bú á Stóragerði í Óslandshlíð. Fluttist vestur um haf 1890 og settist að í Winnipeg; þar andaðist kona hans árið 1893. Næsta ár 30. Okt giftist hann aftur núverandi konu sinni Guðbjörgu Guðmundsdóttur Jónssonar frá Lýtingsstaðakoti í Skagafirði. Byrjaði verzlun í Winnipeg 1897 og verzlaði þar í 5 ár; flutti síðan til Oak Point og byrjaði þar verzlun rúma mílu austar en þorpið er nú á Oak Point. En þegar járnbrautin kom flutti hann verzlun sína að mestu inn í þorpið. Nú verzlar hann bæði þar og heima á bújörð sinni. — Pétur Árnason bónda Árnasonar í Hörgskoti í Húnavatnssýslu. Móðir Péturs var Ingibjörg Jónadabsdóttir Grímssonar frá Búrfelli; var hún systir þeirra bræðra Jens og Jósefs Líndal, er áður er frá sagt. Pétur flutti vestur um haf til Winnipeg árið 1887 með heitmey sinni Gróu Hallgrímsdóttur frá Meðalheimi í Húnavatnssýslu, er hann giftist litlu síðar. Lifir einn sonur þeirra, Hallgrímur að nafni. Pétur nam land í Þingvallanýlendu, en flutti þaðan aftur til Winnipeg vegna féleysis. Eftir tvö ár flutti hann til Dakota, en það fór á sömu leið; hann flutti aftur til Winnipeg og var þar enn tvö ár. Þaðan fór hann til Álftavatnsbygðar, nam þar land og keypti annað. Konu sína misti Pétur 1899, en giftist aftur 1901 Helgu Ragnheiði Andrésdóttur, er lengi bjó að Hvassafelli í Norðurárdal, Guðmundssonar bónda á Sámstöðum í Hvítársíðu; en móðir Helgu var Kolfinna Oddsdóttir frá Síðu í Húnavatnssýslu. Árið 1903 var Pétur settur af fylkisstjórninni lögregluþjónn (Provincial Constable) í fylkinu, "og gegnir því embætti enn þegar með þarf." — Sigurjón Jónsson skipstjóra frá Hrannprýði í Hafnarfirði; kona hans er Guðrún Jónsdóttir. Komu þau frá Íslandi 1886, voru fyrst í Winnipeg, fóru síðan til

Þingvallanýlendu, þaðan á vesturströnd Manitobavatns að Sandy Bay, þaðan í Sigluness-bygð og síðast til Álftavatnsbygðar fyrir 6 árum síðan. — Þorkell Jónsson; kona hans Ingveldur Bjarnadóttir lézt næstliðinn vetur. Þau komu frá Fellsströnd við Breiðafjörð 1899. — Jón Einarsson. (Þeir Árni Reykdal og Jón eru bræðrasynir). — Gunnar Jónsson Hólm, kom vestur um haf 1893 frá Hólalandi í Borgarfirði. Faðir Gunnars var Jón Stefánsson bóndi á Eyvindará. Kona Gunnars er Guðný Stefánsdóttir Abrahamssonar frá Bakka í Borgarfirði. Gunnar var fyrstu 6 árin í Nýja Íslandi (River Town) og vann við sögunarmylnu, flutti síðan í Álftavatnsbygð, nam þar land, en seldi það. Er nú í Sigluness-bygð. — Grímur Jónsson Scheving, sonur Jóns bónda Einarssonar á Hólalandi, bróðursonur Gríms Einarssonar frá Klausturseli, er getur um í þætti Dakota-manna; kona hans Guðrún er systir Gunnars Hólm. — Andrés Eyjólfsson frá Vöðlum í Reyðarfirði; kona hans er Kristín Árnadóttir. — Sigurður Jónsson frá Reykhólum. Kona hans Margrét úr Vestmannaeyjum. Þau eru nú í Sigluness-bygð. — Ólafur Magnússon Jónssonar bónda á Tandrastöðum í Norðfirði í S.-Múlasýslu; kona hans Björg Guðmundsdóttir Magnússonar bónda í Fannardal í sömu sýslu.

Eins manns verður hér enn getið, þó ekki sé hann íslenzkur að kyni. Það er William Eccles, bóndi í Cold Springs P. O. W. Eccles er enskur að kyni, en á íslenzka konu, og fylgir í öllu málum Íslendinga þar í bygðinni, og er jafnan í þeirra flokki, svo kalla má að ekki skilji hann frá þeim annað en málið, því íslenzku hefir hann ekki lært, þar eð hann var orðinn roskinn maður er hann kyntist Íslendingum. En alt það er um Ísland er ritað á enskri tungu, les hann, og er mjög hrifinn af fornsögum vorum, þeim er þýddar eru á enskt mál. Kona Eccles er Monika Guðmundsdóttir bónda

Jónssonar, er lengi bjó í Litladal í Blönduhlíð í Skagafirði. En móðir hennar var Sigurveig Benediktsdóttir, og voru þau bræðrabörn Jón Sveinsson að Mælifelli og Sigríður. Monika flutti vestur um haf árið 1888, með tveim dætrum sínum. Var hún þá ekkja, og hét fyrri maður hennar Jónas Jónasson, og var hann af ætt sra. Þorláks Þórarinsosnar, þess er "Þorlákskver" er við kent. Aðra dóttur sína misti Monika 13 ára gamla En hin, Kristín að nafni, er gift Jóhanni kaupm. Halldórssyni á Oak Point. W. Eccles og kona hans eru talin með efnuðustu hjónum í bygðinni, og njóta almennrar virðingar og velvildar þar. Og ætíð hefir Eccles með ráði og dáð stutt allan íslenzkan félagsskap í bygðinni, og má sem dæmi þess nefna það, að þau hjónin gáfu stærsta upphæð af öllum í bygðinni þegar verið var að safna fé til að senda heim til Íslands til styrktar ekkjum drukknaðra manna, og eins þegar safnað var þar styrk til heilsuhælisins á Íslandi.

*Búnaðarhættir.*

Fyrsta verk landnemanna var eins og tíðkast að koma upp húsum, er þeir gætu lifað í með fjölskyldur sínar. Þau voru hvorki stór né háreist, því allir voru þeir að kalla mátti félausir, sumir alveg, aðrir nærri. Kofarnir voru allir bygðir úr bjálkum veggirnir, en fyrst í stað að eins raftar í þaki og stráþak yfir blandað með leir; eru þök þau hlý og leka lítið, en það fyrsta þeir gátu útveguðu flestir sér borðvið í þök og spónlögðu þökin. En ekki var þá "í annað hús að venda" til að afla sér timburs. Það varð alt að sækja til Winnipeg, um 80 mílur, og stóð ferðin oftast yfir 8 til 12 daga, og stundum lengur, því vegir voru oft lítt færir þegar blautt var. Flutningstækin voru þá engin nema vagnar er uxum var beitt fyrir, oft misjafnlega duglegum, því eins og nærri má geta urðu margir að sætta sig

við að kaupa ódýrustu uxana, af því gjaldeyri skorti. Allar lífsnauðsynjar, er kaupa þurfti, varð einnig að sækja til Winnipeg, en það var mest hveiti og aðrar kornvörur. Kaffi og sykur og önnur munaðarvara var þá svo lítið keypt, að þeir er nú búa á þeim slóðum og ekki þekkja þetta af reynslunni, mundu varla trúa því, ef þeim væri sagt nákvæmlega, hve lítið var þá í búðum keypt. Bændur lögðu þá alla stund a að koma sér upp gripastofni, og á þeim árum var víst hjá mörgum þeirra kjötið sannnefndur hátíðamatur, þótt nú hafi þeir kjöt á borðum þrisvar á dag. Fjöldi bænda útvegaði sér net og fiskuðu til heimilisnota í Manitobavatni og Swan Creek (Álftalæk), er var fullur af fiski haust og vor, einkum á vorin. Var það mest "pike" (gedda) og nálfiskur (pickerell), og fleyttu með því fram fjölskyldum sínum. Ekki liðu þeir neinn tilfinnanlegan skort, en lifðu mjög óbrotnu lífi. Gengu heiman að morgni og heim að kveldi oft alt að 12 til 14 mílur, til að vitja netja sinna, og hafa eflaust stundum haft á-ástæðu til að raula fyrir munni sér gömlu vísuna:

"Áður jeg lagði á Ódáðahraun,
át jeg þurran ost."

.En brátt fjölguðu gripirnir, því heyafli var auðfenginn og enginn skortur engjalands, því bygðin var strjál mjög, svo bithaga skorti ei. Og engu var eytt um skör fram. Fóru bændur brátt að geta selt smjör og aðrar afurðir gripa, og lógað gripum til heimilis. Og mjög voru bygðarmenn hjálpsamir við þá er allslausir komu í bygðina, gáfu þeim oft kýr og ýmislegt, er þá vanhagaði um. Þegar tímar liðu fram fjölgaði Íslendingum mjög í bygðinni, en frönsku kynblendingarnir er þar voru áður smá hrukku undan allflestir; þó búa nokkrir þar enn, og seldu ýmsir af þeim lönd sín og hús Íslendingum, oft með góðu verði (sbr. landkaup Jóns Sigurðssonar er áður er getið). Þegar liðin voru

hér um bil 10 ár frá því landnám Íslendinga hófst, voru margir þeirra búnir að koma sér upp álitlegum gripastofni og farnir að selja gripi svo miklu nam til gripakaupmanna. Voru ungir gripir oft keyptir mikið fyrir hönd hjarðmanna í Vesturlandinu, og borgað allvel fyrir þá, alt að 14 doll. fyrir veturgamla gripi og í sama hlutfalli fyrir eldri gripi. En þegar vesturfylkin tóku að byggjast fækkaði hjarðmönnum og um sama leyti kom deyfð í gripaverzlun. Og var þá úti um hagnað af gripasölu fyrir bygðarmenn í bráð. Var að eins hæga að selja vel feita gripi til slátrunar í Winnipeg. En þegar engin er jarðrækt og fóðrað á eintómu heyi með misjafnri hirðing, þá er ervitt að hafa feita gripi, nema helzt á haustin, ef sumartíð er hagfeld. Þessi breyting á gripasölu byrjaði á árunum 1903—1904, og hefir síðan alt af verið fremur lágt verð á gripum í bygðinni, og sala á þeim mest þannig að kaupmenn hafa keypt þá til lúkningar verzlunarskuldum bænda, því lánsverzlun var um það leyti komin á hæsta stig í bygðinni, og þurfti því marga gripi til að borga skuldirnar, þegar nær engir voru keppinautar kaupmannanna í gripaverzlun.

Atvinnu utan heimilis heima í bygðinni höfðu fyrstu landnemar nær enga. Tókst því brátt upp sá siður, að flestir þeirra er frá heimili gátu farið, fóru í þreskingarvinnu á haustin. Þótti ungum mönnum einkum það fýsilegt að mega hrista af sér heimadrungann, vera í fjölmenni og kanna ókunna stigu. Fyrstu árin urðu bygðarmenn að leita til Bandaríkjanna, til Minnesota og Dakota til að fá vinnu. En hin síðari ár hafa flestir þeirra farið í þreskingarvinnu á sléttturnar umhverfis Portage la Prairie og stöku menn til Argyle. Eflaust hafa ýmsum orðið þessar ferðir til mikillar bjargar fyrsta í stað, einkum meðan sparnaðarhugmyndin var ríkust hjá þeim. En oft mun sú reynslan hafa

orðið, einkum er fram liðu stundir, að uppgangssamt hefir orðið, og sjóðurinn ekki digur er heim var komið. Þessar þreskingarferðir haldast þar við enn í dag, og hefir þessi og önnur kaupavinna dregið mjög hugi manna frá heimastörfum og ræktun landsins, bygðarbúum til mikillar vanblessunar, því þeir þurfa enn að kaupa utan sveitar nær allan fóðurbætir, hafra og hveiti úrsigti, er þeim er sauðsynlegur til að fóðra hesaa og naut. Hefir það ár eftir ár dregið út úr bygðinni svo mörgum þúsundum dollara skiftir árlega. Svo hefir þeim, er þetta ritar, verið sagt af gömlum landnemum, að einn starfsamasti bóndi bygðarinnar, Stefán Björnsson frá Litlabakka, er áður er nefndur hér að framan, hafi aldrei hvorki á frumbýlingsárunum eða síðan farið burt úr bygðinni til vinnu. En hvar sem hann gat fengið vinnu í bygðinni fyrstu árin, meðan hann hafði eigi nóg að starfa við búið, vann hann hjá öðrum, hvaða vinnu sem í boði var og hve lágt sem hún var borguð. Launin voru á dag frá 25 cent og alt að 75 cent. Hann vann oftast hjá nábúum sínum, frönskum kynblendingum, og gekk að heiman að morgni í vinnuna og heim að kvöldi, og hirti gripi sína og gjörði ýms heimastörf á málum. Vann hann þannig á einu missiri fyrir 2 kýrverðum. Hann hefir ætíð búið einu farsælasta búi í bygðinni og er nú í góðum efnum, og hagur hans hinn bezti. Hefir sannast á honum íslenzka máltækið: "Holt er heimahvað". Þeir er í þreskinguna fóru, urðu að skilja konurnar og börnin (oftast flest ung) eftir heima með gripina. Þegar heim kom var svo alt oft í óreiðu og haustverk óunnin, þar á meðal að fara verzlunarferðir til Winnipeg, til að sækja vetrarforðann, og stundum hafði aðkoman er heim kom orðið sú, að alt hefði verið brunnið í sléttueldi, hefðu þeir fáu er heima voru ekki rétt hjálparhönd til að verja hey og býli fyrir eldunum, því

sléttueldar voru þar mjög tíðir, meðan strjálbygt var.

Á 3—4 síðastliðnum árum hefir nokkuð verið snúist að því að plægja og sá höfrum og byggi, og hefir hepnast all-vel. Reynt hefir líka verið að sá hveiti, og virðist það spretta allvel. Mestar plægingar munu vera hjá þeim Halldóri Halldórssyni, Sigurði Jónssyni að Minnewaukan, Sveini Guðmundssyni, M. Freeman, M. Gíslasyni, Skúla Sigfússyni og Guðm. Breckmann. Hefir hinn síðastnefndi sagt mér, að hann hafi stundum fengið alt að því 60 bushel af höfrum af ekrunni. Plægingar hjá þessum mönnum munu vera frá 10 og alt að 30 ekrum hjá hverjum. Kartöflurækt er allvíðast í bygðinni, og var byrjuð þegar á fyrstu árum bygðarmanna. Flestir höfðu þá að eins rekuna til að stinga upp garðana. En ekki er það teljandi enn sem selt er út úr bygðinni af kartöflum, en einstöku menn nota kartöflur og rófur til gripafóðurs. Nokkur svínarækt er í bygðinni og hefir nú síðari árin verið selt allmikið þaðan af svínum og fengist allgott verð fyrir þau, frá 5 cent og alt að 6½ cent í lifandi vigt. Margir bændur hafa nokkrar kindur. En það er erfitt vegna úlfamergðar, sem þar helzt við í skógunum. Mestir fjárbændur þar eru Jón og Skúli Sigfússynir. Mun Jón nú hafa alt að fjórum hundruðum fjár, að lömbum meðtöldum. — Fyrstu árin eftir að bændur fóru að hafa ráð á að eignast hesta, urðu þeir að kaupa alla hesta að. Nú eru margir þeirra farnir að ala sjálfir upp hesta sína, og þykja þeir hestar reynast fult svo vel og hinir aðkeyptu.

Nú síðustu árin hafa margir, einkum yngri menn, stundað fiskiveiði í Manitobavatni á vetrum og haft af því nokkurn hag. Hefir því oft verið þröngt um að fá menn til gripahirðingar og annara heimilisstarfa, og kaupgjald verkamanna mjög hækkað. Verkamenn, er áður þótti gott að fá vinnu fyrir 5 til 10 doll. um mán-

uðinn, hafa undanfarin ár getað fengið 20—30 doll. um mánuðinn. Margir hafa líka vinnu við að draga fisk af vatninu, þaðan er hann er veiddur og til Oak Point, og við að flytja frá Oak Point vörur til kaupmanna, er búa fjærri járnbrautinni. Alt þetta hefir aukið fjör í viðskiftum og aukið viðskiftaveltu. En dregið hefir það huga margra frá búskapnum og heimilunum.

*Skólamál.*

Þegar er 2 ár voru liðin frá byrjun landnámsins, eða árið 1889, var Franklín-skóli stofnaður. Stendur hann um 2 mílur suður af Lundar P. O., því þar umhverfis hófst fyrst bygð Íslendinga. Síðar hafa bæzt við: Mary Hill skóli, Cold Springs skóli, Stone Lake skóli, Rabbit Point skóli og Deer Horn skóli. Á fjórum hinum fyrst nefndu skólum hafa nú um mörg ár verið íslenzkir kennarar, flest nemendur frá Wesley College, og margir meðal þeirra hinir beztu er völ var á. T. d. þeir Þorv. sál. Þorvaldsson og Þorbergur bróðir hans, Árni Stefánsson, María Anderson, Emilia Anderson, Stefán Guttormsson og Jóhannes Eiríksson. Hinn síðastnefndi er ekki háskólamaður, en útskrifaður af kennaraskóla og hefir margra ára æfingu í kenslu. Skólahúsin eru flestöll nýbygð, eftir nýjustu fyrirmyndum, og vandað til þeirra. Við suma þessa skóla, að minsta kosti einn þeirra, Mary Hill skóla, er bókasafn fyrir nemendur. Var það stofnað með frjálsum samskotum, fyrir forgöngu hr. Þorbergs Þorvaldssonar, er þar var kennari þá, og lét sér svo einkar ant um að börnin notuðu skólagönguna til að afla sér sannrar mentunar.

*Skemtanir.*

Þegar fyrsta veturinn fundu Íslendingar til þess, hve lífið hér var gleðisnautt ef ekkert væri til þess gert

að halda uppi skemtunum. Viðbrigðin voru næsta mikil að koma úr þéttbygðum sveitum eða kaupstöðum á Íslandi, en vera nú hér í fáum og strjálum hóp, nærri útilokaðir frá umheiminum. Það liðu því fá ár, líklega ekki nema eitt, þar til farið var að snúast við því að byggja samkomuhús, þar sem bygðarbúar gátu komið saman til að skemta sér og til fundahalda, ef um alvarleg mál þurfti að ræða. Það varð því fyrsti félagsskapur bygðarmanna að koma sér saman um að byggja samkomuhús. Var það bjálkahús allstórt (40x24 fet?), með timburþaki spónlögðu. Var skotið saman í hlutafélag, til að kaupa það er þyrfti. En verk alt lagt til gefins, og gekk það alt greiðlega, þó íbúarnir væru "fáir, fátækir og smáir". Mestir hvatamenn þess, hefir Jón Sigurðsson sagt þeim er þetta ritar, voru þeir bræðurnir Jóhann og Gunnar frá Nesi í Loðmundarfirði, er áður eru nefndir, "glaðlyndir og góðir drengir." Stóð það tæpa mílu fyrir norðan Lundar P. O. (sect. 2). Í húsi þessu voru haldnar samkomur, og er fram í sókti umræðufundir um mál þau er bygðarmenn létu sig varða. Mesta skemtunin var dans, og stöku sinnum ræðuhöld einkum er fram liðu tímar. En mest voru það eldri mennirnir, er fengust til að tala á fundum og skemtisamkomum. Af yngri mönnum var það helzt Páll Reykdal, er tók þátt í ræðuhöldum, og fórst það mjög myndarlega. Sömuleiðis Guðm. Breckman, eftir að hann kom í bygðina. Upplestur var stöku sinnum og tóku unglingar nokkurn þátt í því, og af eldri mönnum mest Jón Sigurðsson og Jóhann Þorsteinsson, og stöku sinnum Jóhann Pálsson. Smáleikir voru stöku sinnum leiknir er fram í sókti, og hepnuðust eftir vonum, því allur undirbúningur og æfingar voru af skornum skamti, Nokkuð snemma á árum byrjuðu bygðarmenn að halda Íslendingadag. En þegar deilan um 17. Júní og 2. Ágúst kom upp í Winnipeg, festi hún rætur

líka í þessari bygð, og féll þá hátíðahaldið niður um hríð, a. m. k. annað slagið. Eftir aldamótin var aftur byrjað að halda Íslendingadag, en sá siður féll niður aftur, og um það leyti, árin 1905 til 1906 fækkaði mjög um samkomur, því það var þá um hríð þannig lagað snið á samkomunum, að hinum betri mönnum þókti ekki leggjandi rækt við að sækja þær. — Fyrstu árin byrjuðu kynblendingar að sækja samkomurnar, og voru mjög fýsandi að sem mest væri dansað. Fylgdi hluttöku þeirra í samkomunum ýms óregla, því þeir eru drykkfeldir og engin prúðmenni fæstir af þeim til orðs eða æðis. Sló stundum í deilur með þeim og Íslendingum, og eitt sinn kvað svo ramt að því, að Íslendingar röðuðu sér í fylking, slöktu öll ljósin, og ráku kynblendinga út. Lá við bardaga er út kom, þó ekki yrði mikið úr. Hörfuðu kynblendingar undan, og leizt ekki á yglibrún Íslendingsins. Höfðu þeir sig nokkru hægar eftir það. — Þegar kom fram á árin 1904 til 1907 var fólksfjöldi bygðarinnar orðinn svo mikill, að auðsætt var að samkomuhúsið var langt of lítið. Fóru þá ýmsir menn bygðarinnar að gjöra gangskör að því að bygt yrði nýtt samkomuhús og stofnuðu til þess hlutafélag. Húsið var reist sumarið 1908, er það timburhús miklu stærra en hitt, og er nú gamla húsið notað fyrir hesthús fyrir hesta samkomugesta.

*Verzlun.*

Fyrst eftir að Íslendingar hófu landnám í bygðinni urðu þeir að sækja nær allar vörur sínar til Winnipeg, eins og áður er á vikið. Verzluðu flestir þeirra mest við Árna kaupm. Friðriksson, sem mörgum fátækum vesturfara var hjálparhella á frumbýlingsárunum. Er tímar liðu fram fóru ýmsir að verzla í Stonewall, sem er smábær um 60 mílur suðaustur frá Álftavatnsbygð, og hefir járnbrautarsamband við Winnipeg. En brátt

fóru Íslendingar í bygðinni að hyggja á verzlun og verzlunararð. Fyrsti íslenzkur kaupmaður í bygðinni var Halldór Halldórsson eins og áður er getið. En hann hætti brátt aftur verzlun, og Jóhann sonur hans tók við. Næst á eftir Halldóri byrjaði Jón Sigfússon á Clarkleigh verzlun, en hætti henni aftur eftir fá ár. En árið 1890 byrjaði hann að verzla með gripi og hefir alt af gjört það síðan. Vorið 1908 byrjaði hann aftur verzlun og bygði sér verzlunarhús, og verzlar nú þar með ýmiskonar vörur, matvöru o. fl.

Jónadab Jónsson Líndal, sonur Jóns Líndals, Húnvetnings, er áður er nefndur, byrjaði verzlun skömmu eftir 1890 á eignarjörð sinni, 3 mílur norður frá Lundar. Hann hefir töluverða verzlun og er hygginn og gætinn verzlunarmaður. Lánsverzlun hefir hann, en virðist vera þeirri gáfu gæddur, að sjá oftast nær hverjum hættulaust sé að lána.

Helgi Friðbjörnsson Oddson, Cold Springs, byrjaði verzlun árið 1907 og verzlar enn.

Þorsteinn Jóhannsson og Þórarinn Breckman byrjuðu verzlun að Mary Hill 1905. Síðar keypti Þorsteinn hlut Þórarins í verzluninni. Hann hafði lánsverzlun, en þókti hún ei borga sig og hætti verzlun vorið 1908.

Þorsteinn Þorkelsson hefir verzlun á Oak Point og á heimili sínu, eins og áður er um getið.

Páll Reykdal, sonur Árna Reykdals er áður er frá sagt, byrjaði verzlun á Oak Point 1904; verzlaði hann mest með fóðurkorn og hveiti, og nokkuð af ýmsri annari matvöru. Hann hafði lánsverzlun, og þótti hún ei borga sig, og hætti því verzlun 1908. Páll hefir nú um nokkur ár verið friðdómari í bygðinni. Hann er giftur Kristínu Eggertsdóttur, systur Árna Eggertssonar fasteignasala í Winnipeg. Þeir Jóhann Halldórsson og Páll eru einir helzau leiðandi menn af yngri mönn-

um í bygðinni, og hafa verið keppinautar í verzlun, og andstæðingar í stjórnmálum. Þeir voru í æsku uppaldir í nágrenni hvor við annan, og halda alt af góðum kunningsskap, þrátt fyrir sundurleitar stefnur.

*Jóhann Halldórsson* hefir verið umsvifamestur, og stórstígastur allra íslenzkra verzlunarmanna í bygðinni. Hafði hann fyrst verzlun á Lundar, en flutti síðan til Oak Point. Hann hefir verzlað með nær allar vörutegundir, keypt og selt naut og hesta, svín og sauðfé. Jóhann hefir verið manna hjálpsamastur, við fátæka jafnt sem ríka, og rekið skuldaverzlunina, þetta íslenzka átumein, í svo stórum stíl, og með svo litlum athuga, að til skaða hefir orðið sjálfum honum og ýmsum öðrum. Hann lenti í peningaþröng við lánardrotna sína og skuldunautar hans lentu í þröng með að borga honum, og varð hann því að beita harðari ráðum en honum var ljúft, til að innkalla skuldir sínar. En nú er hann á góðum vegi að greiða lánardrotnum sínum, og hefir að miklu leyti hætt lánsverzlun, og fagna bygðarmenn því alment, því þrátt fyrir alt er flestum verzlunarmönnum hans hlýtt til hans, vegna hjálpsemi hans og lipurleika að greiða eftir mætti fram úr því sem á milli hefir borið. Jóhann hefir líka rekið fiskiverzlun í stórum stíl og reyna að vera utan við auðfélög þau er örlögum fiskiverzlunarinnar ráða. — Það mætti rita miklu ítarlegar en hér er gjört um verzlun hans, því verzlunarsaga hans er að miklu leyti viðskiftasaga bygðarinnar.

Þegar Jóhann Halldórsson flutti frá Lundar keypti Snæbjörn Einarsson verzlun hans þar, og heldur henni þar áfram. Snæbjörn er ungur maður og efnilegur, ættaður úr Barðastrandasýslu, og eftir sögn kunnugra manna náskyldur Birni Jónssyni ráðherra Íslands. Snæbjörn er giftur Guðríði Magnúsdóttur Gíslasonar úr Breiðafirði, er getið er um hér að framan.

Auk kaupmanna þeirra er nú eru nefndir hefir Jón

H. Johnson, bóndi í Grunnavatnsbygð, haft stóra fiskiverzlun á Oak Point. Hefir hann rekið hana með dugnaði og fyrirhyggju, og er maður vinsæll.

*Samgöngumál*

hafa alt af á tréfótum gengið í Álftavatnsbygð og hinum öðrum bygðum Íslendinga austan Manitobavatns. Eins og að framan er skráð, þá var byrjað að leggja járnbraut frá Winnipeg, er liggja átti um þessar bygðir, á því tímabili er íslenzkt landnám hófst í bygðunum. En hætt var brautaralgningunni í miðju kafi. Þessi vonbrigði um hagfeldar samgöngur urðu þess valdandi, að fjöldi manna flýði bygðirnar, og létu selja lönd sín til lúkningar skattgjöldum. Sum löndin seldust fyrir nær ekkert verð, og er það til frásagnar sem dæmi þess hve löndin þóktu þá lítils virði, að einn Íslendingur keypti þar fremur gott land fyrir 35 dallara (160 ekrur). Og til samanburðar má geta þess, að fyrir 2 eða 3 árum síðan var land þar örskamt frá selt fyrir 8 doll. ekran, að sögn. — Flest voru það enskumælandi menn, er bygðina yfirgáfu. Íslendingar voru þaulsætnari. — Bygðarmenn voru alt af að bera upp kveinstafi sína við stjórnina um járnbrautarbyggingu. Og að lokum var járnbraut bygð til Oak Poina 1904, og myndaðist þar þegar smáþorp. Síðar (1907—8) var hún framlengd um 20 mílur norður fyrir Lundar-pósthús, en þegar þetta er ritað eru járnbrautateinarnir ólagðir á þann stúf. Síðar á að halda þeirri braut áfram norðvestur frá Lundar.

Vegagjörð í Álftavatnsbygð er mjög ófullkomin, og óregluleg. Þó liggur ein braut, er talsvert hefir verið við gert, alla leið norðvestur með vatninu, frá St. Laurent, og alla leið norður fyrir Narrows. Er sú braut fyrir löngu lögð, og illa haldið við. Er hún í daglegu máli kölluð "Mission brautin". Ber hún nafn-

ið af því, að St. Laurent er oft í daglegu máli kallað *Mission*, af því þar er og hefir lengi verið trúboðsstöð kaþólsku kirkjunnar.

*Sveitarstjórn.*

Þegar Íslendingar byrjuðu landnám í Álftavatnsbygð var þar sveitarstjórn. En Íslendingar voru þar þá í minni hluta, bæði vegna mannfæðar og þess, að svo fáir þeirra voru svofærir í enskri tungu, að þeir gætu tekið þátt í sveitarmálum gegn hérlendum mönnum. Þó var einn Íslendingur kosinn í sveitarstjórn, en átti þar sæti að eins eitt ár. Það var Jón Sigfússon á Clarkleigh, er áður er getið. Lítil var víst reglusemi og enn minni framkvæmdir í sveitarstjórninni, og að síðustu var hún lögð niður.

Ódugnaður síðustu sveitarstjórnar olli því, að Íslendingar fengu óbeit á sveitarstjórn þar í bygðinni, og hafa alt að þessu verið henni mjög fráhverfir.

Ýmsar tilraunir hafa verið gjörðar undanfarin ár til að mynda sveitarstjórn í bygðinni, og gjöra hana að lögbundnu sveitarfélagi. En allar þær tilraunir hafa mishepnasa, þar til nú í sumar í Júlí; þá var það samþykt í nær einu hljóði að koma á sveitarstjórn. Er ákveðið, að sveitarstjórnarsvæðið nái útyfir allar bygðir Íslendinga í Álftavatnsbygð og Grunnavatnsbygð, og renna bygðirnar báðar þannig saman í eitt sveitarfélag. Nær sveitarstjórnarsvæðið yfir Twsh 18, Range 3, 4 og 5 vestur, Twsh. 19, R. 1, 2, 3, 4 og 5, og nokkurnhluta af 6 vestur, Twsh. 20, R. 3, 4 og 5 og nokkurn hluaa af R. 6. (R. 6 er alveg í Manitobavatni í Twsh. 18 og að nokkrum hluta í Twsh. 19 og 20). — Þegar þetta er ritað, er ekki búið að kjósa sveitarstjórn í bygðinni.

*Félagsmál.*

Auk félagsskapar þess, sem nefndur er hér að

framan í þættinum um skemtanir, hefir verið byrjað á ýmsum félagsskap. En alloftast hefir félagsskapur og samheldi átt fremur örðugt uppdráttar í bygðinni. Hér á eftir verður frá því sagt, hverjar tilraunir hafa af bygðarmönnum gjörðar verið til að vinna saman í félagsskap og hver árangur þess hefir orðið. Er þess þá fyrst aó geta, að árið 1900 var þar stofnað

*Bændafélag.*

En það lagðist niður aftur árið 1907. Ekki sáust eftir það nein merki í búnaðarframförum, og hafði það þó styrk einhvern úr fylkissjóði samkvæmt landslögum. Aðal verk þess var að útvega, með betra verði en hjá kaupmönnum, meðul til gripalækninga. Fundir voru haldnir nokkuð oft að vetrinum, og voru hinir betri menn bygðarinnar að reyna að halda þar uppi umræðum um búnaðar framfarir. En það mál fékk litla áheyrn. Fundirnir urðu því að mestu leyti danssamkomur, og kölluðu glaðlyndir menn félagið "hið dansandi bændafélag". Saga og starf þess félags væri eflaust réttast sögð með hinni alkunnu grafskrift er fyndni-skáldið Sigurður Pétursson setti sjálfum sér:

"Hann át, og hann drakk, og hann svaf, — og svo dó hann."

*Smjörgerðarfélagið.*

Það var haustið 1901 að bygðarmenn höfðu umræðu um það hver nauðsyn bæri til að stofna smjörgerðarfélag í bygðinni. Fram að þeim tíma höfðu allir búendur búið til smjör sitt heima, og annað hvort selt það kaupmönnum í bygðinni eða geymt það þar til á haustin, og farið þá með það til Winnipeg og selt það þar. Var það smjör, er framleitt var í bygðinni á þann hátt all-misjafnt að gæðum, og seldist oft fremur illa. — Það var þegar gjörður góður rómur að tillögunni um að stofna smjörgerðarfélagið, og var ákveðið á fjölmennum fundi, að það skyldi vera hlutafélag og

upphæð hvers hlutar 5 dollarar. Var þá farið að safna loforðum um hluttöku í félaginu, og eftir lítinn tíma var svo máli komið, að fengin voru loforð fyrir 400 hlutum. Var félagið þegar stofnað og því fengin löggilding, og var það nefnt "The Maple Leaf Creamery Co." Eru hluthafar þess nú orðnir um 60 að tölu. Svo var skörulega gengið að þessu máli, að þegar um veturinn var keypt efni í starfshús félagsins og það reist á útmánuðum. Hefir sá, er þetta ritar, heyrt, að þeir Skúli Sigfússon og einkum Páll Reykdal hafi skörulegast unnið að framkvæmdum þessa máls.—Stærð smjörgerðarhússins er 60x24 fet, og auk þess hús fyrir vélarnar 16x14 fet. Svo fór verkið vel úr hendi, að hægt var að taka til smjörgerðar seint í Apríl um vorið. Vélar og vinnuáhöld voru keypt af smjörgerðarfélagi vestur í landi, er hætt hafði störfum. En við það þurfti að bæta ýmsum nýjum áhöldum. Kostnaðurinn við að koma þessu öllu af stað var $2,600, og varð því að taka talsvert lán í byrjun, því svo hafði verið ákveðið, að ekki þyrfti að borga hlutina að fullu þegar í stað til félagsins. Það, sem ógreitt var af þeim átti að borga árlega eftir þörfum félagsins, og ákvæðum aðalfundar þess ár hvert.

Í marz 1902 var fyrsta stjórnarnefnd kosin. Áttu sæti í henni þessir menn: Jón Sigfússon, formaður; Þorsteinn Jóhannsson, skrifari; Guðm. Brechman, féhirðir; Skúli Sigfússon, framkvæmdarstjóri, Halldór Halldórsson, Þórarinn Breckman, Kristján Breckman, Sigurður Sigurðsson og Jón Sigurðsson.

Síðan hefir félagið alt af starfað 4 til 6 mánuði á hverju sumri, og búið til 50 til 75 þúsund pd. af smjöri ár hvert, til jafnaðar um 13,000 pd. á mánuði. Vorið 1908 voru keypt ný og fullkomnari smjörgerðaráhöld, því hin eldri voru þá orðin slitin mjög. Kostaði sú umbót um 400 doll. Síðastliðin 4 sumur hefir fé-

lagið hlotið verðlaun fyrir smjörgerðina á iðnaðarsýningu í Winnipegborg, frá 30 til 90 doll. Er það bæði hagur og sæmd félagsins.

Sem dæmi heppilegrar starfsrækslu félagsins skal þess getið, að síðastliðið sumar borgaði það bændum 2 4 centum meira fyrir hvert pund í smjörfitunni, heldur en önnur félög buðu bygðarmönnum, um tveggja mánaða tíma, þegar rjóminn var mestur. Félagið er alveg eign Íslendinga, og hefir því ávalt verið stjórnað af Íslendingum. En margir hérlendir bændur hafa skift við það. En aldrei hefir það haft íslenzkan smjörgerðarmann. .

Sá, er þetta ritar, getur ekki bundist þess að láta í ljós þá skoðun, að framför félagsins sé engum einum manni meir að þakka en Guðmundi Breckman, er hefir verið ráðsmaður þrjú síðastliðin ár og alt af starfað í stjórn þess frá byrjun með staðfestu, drengskap og dugnaði.

*Lestrarfélag*

var stofnað í bygðinni 4. febr. 1904. Forgöngumaður þess var Gunnar Hólm, er áður er frá sagt. Var hann formaður þess fyrsta árið. Voru menn þeir, er hér á eftir eru taldir, fyrstu stofnendur félagsins: Gunnar Hólm, séra Jón Jónsson, Kr. Breckman, Guðm. Breckman, Árni Reykdal, Páll Reykdal, Eiríkur Guðmundsson, Pétur Árnason, Jón Einarsson og Skúli Torfason. Félagsmenn hafa flesair orðið 47. En eru nú 45. Félagið á nú 252 eint. af bókum í bandi, og auk þess eitthvað af bókum og tímaritum sem ekki er bundin.

*Kristindómsmál.*

Þau eru síðast talin af félagsmálum, ekki af því að sá, er þetta ritar, álíti þau þýðingarminstu málin, heldur af því, að félagsskapur sá er nú er hafinn í bygð-

inni, þeim málum til stuðnings, er yngstur alls félagsskapar í bygðinni. Það var ekki fyr en um eða eftir aldamótin 1900 að bygðarmenn fóru að sinna félagsskap í trúmálum að nokkrum mun. Einhverntíma á árunum milli 1890 og 1900 voru húslestrarsamkomur í Mary Hill skólahúsi. Las Jón Sigurðsson húslestrana úr Helgapostillu. Jafnframt var sunnudagsskóli þar fyrir börn, og veittu bygðarmenn sjálfir börnum tilsögn, mest þeir Skúli Sigfússon og Jón Sigurðsson. En brátt féll þessi félagsskapur úr sögunni. Frá því kirkjuleg starfsemi hófst fyrir alvöru út um bygðir Íslendinga í Canada, voru alt af sendiboðar kirkjufélagsins að koma út í bygðina, og fluttu þar nokkrar messur. En árangur þess var ekki sá, að það glæddist löngun bygðarmanna alment til félagsskapar kristindómsmálum til stuðnings. Sá er fyrstur gat myndað söfnuð þar í bygðinni var séra JónJónsson, er áður er getið í sambandi við lestararfélagið.

Sá er þetta ritar hefir fengið frá séra Jóni sjálfum nokkur atriði úr æfisögu hans, og stutta frásögn um starfsemi hans í Álftavatnsbygð, og er hún orðrétt sett hér svo hljóðandi:

"Eg er fæddur að Efraholti í Reykjavík 15. Júlí 1856. Faðir minn, er eg misti þegar eg var á 4. ári) var Jón Sigfússon Oddsonar, hálfbróðir Gunnlaugs Oddsens dómkirkjuprests í Reykjavík, er bjó í Nesi við Seltjörn. Móðir föður míns var Björg Jónsdóttir frá Gili í Svartárdal í Húnaþingi, systir Sigurlaugar konu Sigurðar Árnasonar í Höfnum. En móðir mín var Sigríður Jónsdóttir. Var hún ættuð úr Árnessýslu, og höfðu hinir fyrri ættmenn hennar flutzt þangað úr Norðurlandi. Faðir móður minnar, Jón Jónsson, bjó síðast á Bergsstöðum í Reykjavík; kona hans var Sigríður Hannesdóttir, og voru þeir bræður móður minnar Jón Jónsson timburmeistari í Reykjavík og Guð-

mundur útvegsbóndi á Bergsstöðum þar "í Víkinni". Eg ólst upp með móður minni þar til eg prestvígðist árið 1886 að Kvíabekk í Ólafsfirði, og kvæntist sama haust konu minni Þorbjörgu Maríu Einarsdóttur Guttormssonar alþm. Vigfússonar frá Arnheiðarstöðum í Fljótsdal, og eigum við 2 börn á lífi, Þorstein og Sigríði Jónínu. Frá Kvíabekk fór eg eftir 3 missiri og varð prestur á Þönglabakka; þar var eg tæpt ár. Þá sókti eg um Hof á Skagaströnd og var þar prestur í 7 ár. Lét þá af prestsskap og dvaldi 3 ár við fiskiveiðar í Borgarfirði eystra. Var síðan 1 ár í Reykjavík og fór þaðan 12. júlí 1900 hingað vestur um haf, og hefi dvalið í Álftavatnsbygð síðan seint í Septembermánuði það haust. Vorið eftir að eg kom hér út gekst eg fyrir því að hér væri stofnaður lúterskur söfnuður, fyrir bón þeirra bræðranna Jóns og Skúla Sigfússona o. fl., og urðu í þeim söfnuði, ef eg man rétt, milli 30 og 40 heimilisfeður. En meiri hluti safnaðarnefndarinnar kollvarpaði þeim söfnuði eftir 2—3 ár, og eftir það þjónaði eg þeim bygðarmönnum, er vildu prestsþjónustu mína þiggja, bæði að messum og aukaverkum, fyrsta árið fyrir um 60 dali og svo fyrir minna, og síðast messaði eg þegar mér sýndist að eins fyrir það, er kom inn í hvert skifti. Eitt ár messaði eg í Mary Hill skólahúsi einu sinni í mánuði, og komu í minn vasa fyrir það liðugir 12 dalir, svo ekki er hægt að segja að ágirnd hafi þar né nokkru öðru sinni ráðið prestsverkum mínum. Í fyrra (1908) fór kirkjufélagið að stofna hér söfnuð, og þegar eg sá hve lítt gekk með safnaðarþroskunina, afréðum við hjónin það að ganga í þann söfnuð og tók eg það fram um leið, að eg gjörði það einungis til að sjá hvort fleiri mundu eigi á eftir koma, án nokkurs tillits til þess að komast að þjónustu þess safnaðar, að eins til stuðnings málefninu. Og þetta tiltæki okkar reyndist svo, að eg fékk 60 meðlimi í söfnuð-

inn með mér á 2 dögum, áður en eg fór sem safnaðarfulltrúi á kirkjuþing í fyrra. Og eftir það fékk eg nokkrar fleiri fjölskyldur. Í vetur, á safnaðarfundi, var ákveðið að fá trúboða frá kirkjufélaginu í 2 mánuði upp á hálft kaup (50 doll.). En sumir vildu þá, að eg þjónaði líka, og varð það einnig að samþykt, og samdist svo með mér og safnaðarnefndinni, að eg messaði 10 messur á þessu ári, og gekk eg að því og setti 5 dollara fyrir hverja messu. Eg er því ekki kirkjufélagsprestur, en að eins kirkjufélagsmeðlimur sem safnaðarlimur, og hinn fyrri söfnuður minn stóð í engu sambandi við kirkjufélagið."

Þannig hljóðar frásögn séra Jóns, og mun hún óhlutdrægt sögð. Því einu má þar við bæta, að þegar séra Jón mætti sem safnaðarfulltrúi fyrir Álftavatnsbygðar-söfnuð á kirkjuþingi 1908, þá bar forseti kirkjufélagsins, séra Jón Bjarnason, þá tillögu fram, að kirkjuþingsmenn þökkuðu honum starfsemi hans til eflingar kristindómi og samþyktu kirkjuþingsmenn þá tillögu með því að standa upp allir.

Árið 1906 byrjaði hið íslenzka lúterska kirkjufélag fyrir alvöru að mynda söfnuð í Álftavatnsbygð. Var séra Rúnólfur Marteinsson sendur frá kirkjufélaginu til að mynda söfnuðinn, og var því starfi síðan fram haldið, og voru þeir Hjörtur Leó og Guttormur Guttormsson þar sitt sumarið hvor á hvíldartímum sínum frá skólanámi, og fluttu þeir messur og unnu að því að efla söfnuðinn. Er nú í honum um hundrað manns, að sögn forseta safnaðarins. Farið er að undirbúa kirkjubyggingu. En ekki er neinn fastur prestur ráðinn þangað enn. Í forstöðunefnd safnaðarins eru þessir:

Halldór Halldórsson formaður, Daniel Bachman skrifari, Guðm. Breckman féhirðir, Helgi F. Oddson og Bergþór Jónsson.

Um sama leyti og myndaðist söfnuður sá, er nú

hefir verið frá sagt, myndaðist í bygðinni Únitarasöfnuður, fyrir forgöngu séra Rögnvaldar Péturssonar. Í þeim söfnuði eru um 30 manns. Keypti söfnuðurinn skólahús á Mary Hill, til að flytja í messur og til fundarhalda, og fékk til þess styrk frá aðal útbreiðslufélagi Únitara. Hefir séra Rögnvaldur Pétursson, þjónað þessum söfnuði, ásamt söfnuði sínum í Winnipeg. Þetta sumar (1909) býr þar í bygðinni guðfræðisnemandi frá prestaskóla Únitara í Meadville, Albert Kristjánsson, og veitir hann söfnuðinum prestsþjónustu og vinnur að útbreiðslu hans. Í forstöðunefnd safnaðarins eru þessir: Jón Sigurðsson formaður, Páll Reykdal skrifari, Guðmundur Guðmundsson, Eiríkur Guðmundsson, Sigurjón Jónsson og Björn Runólfsson. Munu þrír hinir fyrsttöldu hafa unnið mest með séra Rögnvaldi að myndun safnaðarins.

Fremur má heita gott samkomulag milli þessara safnaða. Og ekki allfáir meðlimir þeirra sækja hver annars messur og samkomur, og þeir sem engum söfnuði tilheyra sækja messur hjá báðum. Má oft sjá þá gömlu landnemana Halldór Halldórsson og Jón Sigurðsson, formenn safnaðanna, sitja hvor á annars samkomum.

En hvorugum þessum söfnuði hefir enn tekist að vekja nokkurn sterkan trúmálaáhuga í bygðinni, enda hefir hvorugur þeirra enn getað bygt á þeim grundvelli, sem öll trúmál hljóta að byggjast á, en það er uppfræðing og vegleiðsla æskulýðsins.

---

# Skógareldurinn.

*Sönn saga hetjuskapar og mannrauna.*
*Blaðsíða úr lífsbók hinna harðsnúnu frumbúa Norðvesturlandsins, er orðið hafa á hinum voðalegu vegum skógareldanna.*
*Eftir Roy Norton.*

---

Hann gnæfði fyrir ofan mig í bjarmanum af eldinum, er við höfðum kveikt úti fyrir skálanum okkar í frumskóga-óbygðunum í Minnesota, eg var væskilmenni hjá honum og var eg þó fullra 6 feta á hæð; þegar hann talaði, var auðheyrt á röddinni, er var hrein og hreimmikil eins og tónar í stóru orgeli, að hún skalf af hugarhræringum, er hann leitaðist við að kefja.

Það var þrásinnis, eftir því sem sögunni miðaði áfram, að hann lyfti hárprúða höfðinu hærra og var hann frábærlega fagur sýnum og tilkomumikill þá, er næturkulið lék í skegginu á honum og breiddi það út um bringuna; og eg horfði með hálfopnum sjónum út í niðamyrkrið milli trjánna, á bak við bálið, gat eg látið mig dreyma um hann sem víking, hertígjaðan og hermannlegan á sigurför um ókunn höf. Þó átti saga Knúts ekkert skylt við úfin og ókönnuð höf, því að þar var hvorki minst á seltu eða svellandi voðir, en hún sagði frá hræðilegum flótta, voðalegu vopnabraki og hreystilegri vörn í stríðinu fyrir sér og sínum.

Eg get ekki gjört hana eins áhrifamikla og hann, þá er han stóð þarna teinréttur með spentar greipar, og sagan um þrautir hans og mannraunir streymdi fram

af munni hans í allri hljómfegurð hinnar norrænu tungu, sem þú átt engan kost á að skilja, nema þú hafir komið frá fjörðum og fjöllum þess lands, er hann var borinn og barnfæddur í; en eg segi hana eins vel og eg hefi föng á í öllum sínum einfaldleik — söguna af Knúti.

*Sagan af Knúti þögla.*

Við höfðum hjalað saman á víð og dreif; að síð ustu bárust í tal frumskógarnir og hinir miklu eldar.

"Eg á það nú — alt þetta," sagði hann og sveiflaði hendinni í óákveðnum, víðum hring. "Og það á eg járnnámunni að þakka; eg hefi unnið fyrir því—hverju einasta feti." Hann gekk fram og til baka eins og í djúpum hugsunum, svo nam hann staðar andspænis mér hinum megin við eldinn.

"Þú spurðir mig einu sinni hvort eg hefði nokkurn tíma séð skógareld hér vestur í Minnesota, en þá hirti eg ekki um að segja þér frá því; eg þekti þig ekki nógu vel. Það líkist of mikið því, að endurkalla harmleik fram á sjónarsviðið. Nú þekki eg þig betur og er mér ekki allfjarri skapi að segja þér sögu, er svo er samgróin mér að einu og öllu, að mig hefir eigi með öllum jafnaði fýst að hampa henni framan í almenningi.

Svo eg komist að efninu, þá er eg borinn og barnfæddur í hrjóstugri sveit í Norvegi. Það rann gott og göfugt blóð í æðum móður minnar, og það var hún, er kendi okkur drengjunum — við vorum þrír — það, er við lærðum. Uppvaxtarár okkar voru hörð og í hörðu landi. Við unnum hart fyrir lífinu, við unnum hart fyrir lærdómi okkar, og við tveir yngri bræðurnir gengum möglunarlaust í fang þeim hörðu og óhjákvæmilegu örlögum, að flytja af landi burt. Við fluttum beint til Minnesota með þeim ásetningi, að taka okkur bólfestu þar, og komumst að vinnu úti í skógunum og höfðumst við í bjálka-skálum. Við áttum ekkert skylt við fjölda

þeirra viðbjóðslegu flækinga og drabbara, sem leita sér vetrarvistar hjá auðfélögum við skógarhögg, og búa í áminstum skálum þangað til snjó tekur á vorin, að þeir þá hraða sér til borgarinnar með vetrarkaupið sitt til þess að fylla pyngju herramannsins í vínsölu-kránni, sem hefir keypt sér einkaleyfi til þess, aftur á móti, að gjöra þá að vitfirringum. Við vorum af öðru bergi brotnir og biðum með óþreyju þeirrar stundar, að verða menn til þess að vinna okkur heimild til lands og heimilis og verða hið bráðasta eigendur að hvorutveggja.

Við höfðum alist upp hjá heimilisræknum foreldrum og meira að segja, eg var trúlofaður Tínu. Eg hafði unnað henni frá því eg mundi eftir mér, og látið hana verða hjartað í draumum mínum.

"Skálabúar kölluðu mig Knút þögla, og grunaði ekkert um það, að hver hreyfing tilveru minnar var gjörð hennar vegna — stúlkunnar með lýsigullslokkana heima í Norvegi. Eg var frá mér numinn — ekki með öllum mjalla af umhugsun um hana. Eg vann meira en aðrir vegna þess, að eg var stórhöggastur, og í hvert sinn er öxin mín reið syngjandi að boli trjánna, sagði hún 'Tína! Tína! Tína!' Í snjóbólstrunum uppi á greinum trjánna sá eg andlit hennar, og eg sá hárið á henni flaksa í lausum lokkum, þegar snjórinn þyrlaðist til fyrir vindinum. Auðn skógarins bergmálaði málróm hennar, og hún vitjaði mín á næturnar þegar eg svaf og þrýsti ljúfsætum kossi á ennið á mér. Eg barðist af öllum þeim kröftum, sem guð hafði gefið mér fyrir því, að verða sjálfstæður maður, og svo knálega sótti eg fram, að mér vignaði heldur betur en bróður mínum í kappleik þeim.

Hvorki þú eða nokkur annar maður getur getið því nærri hvers virði mér það var, daginn, er eg sannaði eignarrétt minn fyrir þeim hundrað og sextíu ekrum af landi, er eg hafði numið, og var mér þess meðvitandi,

að það var mín eigin eign. Mín og Tínu.

Satt var það, að ekki voru nágrannarnir; hinn næsti þeirra var í fimtán mílna fjarlægð, en eg fékst lítt um það. Hún ætlaði að koma. Rjóðrið, er eg hafði höggvið þar inni í miðjum sókginum, átti að verða Eden framtíðar minnar. Eg bygði með eigin höndum húsið, er átti að geyma hennar — bygði hús vandaðra og betra en nokkurn tíma áður hafði sézt í skógunum, valdi hin beztu tré í það, geirnegldi það á hornum, hjó allar misfellur af bjálkunum að innan verðu með skaröxinni minni svo vandlega, að ekki var auðið að sjá annað en að heflaðir væru. Herbergin voru þrjú og í því, er í miðið var, útbjó eg eldstæði, er brenna mátti í feiki-miklum trjábútum. Að framan var forgarður, er eg plantaði blómum, en að baki voru risavaxin grenitré, er skýldu fyrir vindum.

Eg taldi dagana. Tína kom alein frá Norvegi. Eg mætti henni í Duluth, og átti ervitt með að sannfærast um, að hin yndislega kona, er horfði djörf og vonglöð framan í mig, væri í raun réttri feimna og ómannblendna stúlkan, er eg hafði kynst inni á milli fjallanna á ættjörðu minni. Við giftumst og bróðir minn, er numið hafði land í fjörutíu mílna fjarlægð frá mér, var vottur að athöfninni. Við fórum með fyrstu járnbrautarlest burt úr borginni; og Tína og eg drógum loks andann frí og frjáls þegar við vorum farin frá járnbrautarlestinni og héldum áfram um skóginn í ótal bugðum eftir stíg þeim, er eg sjálfur hafði lagt og markað með því að höggva spor í trén, er hægt var að sjá tilsýndar. Hún reið á hestinum mínum, en eg gekk við fótaskörina og tré skógarins himingnæfandi bergmáluðu hláturinn í okkur; eg var ekki lengur Knútur þögli.

*Heill og hagsæld — og Ólafur.*

Að heyra hana hrópa upp yfir sig af fögnuði þeg-

ar hún leit rjóðrið okkar og heimilið, var nægilegt endurgjald fyrir alt það, er eg hafði liðið, og með sjálfsafneitun og súrum sveita dregið saman. Eg man það eins og það hefði verið í gær.

Meiri sælu en þá, sem við nutum, getur guð ekki veitt. Við vorum í okkar eigin paradís; samt áttum við ekki annað en hest og kú, litla landspildu, frelsi skógarins og ástir okkar, og myndi margur, ef til vill, ekki hafa kallað það miklar eigur, en það var nóg handa okkur. Lífið var fólgið í vinnu okkar og okkur sjálfum, — ónei, nákvæmlega var það ekki svo, því að innan árs kom Ólafur, og jók það ekki all-lítið á hamingju okkar og metnaðar-þrá.

Eg hélt áfram að ryðja skóginn þangað til eg hafði fimm akurbletti, að meðtöldum sextíu ekrum er eg hafði sáð maís og hveiti, og var að mestu skuldlaus. Nú var Ólafur þriggja vetra — sterkur lítill snáði, er dundaði og lék sér meðal blóma Tínu og söng barnavísur í gjallandi rómi. Öll sanngirni virtist mæla með því, að eftir tvö sumur yrðum við skuldlaus og ættum þá líka dálítið á banka. Á aðra hönd voru afurðirnar af akurblettinum, en hins vegar ritsíma-staurar, er eg gat höggvið á vetrum og gjört mér peninga úr í vatnavöxtum á vorin, er sópuðu þeim ofan eftir lækjarfarveg alla leið til járnbrautar. Hér var auðsætt spor til hagsældar. Það leið fram að hausti, og eg hafði fengið ágæta uppskeru af hveiti, er eg geymdi í pokum úti í kornhlöðu minni, og áleit eg, að það myndi nægja til þess að borga skuld mína við verzlunarmanninn, er eg hafði verzlað við frá upphafi og alt af skuldað.

*Dregur upp bliku, er veldur áhyggjum.*

Það var einn morgun snemma, er eg kom á fætur og stóð á svölunum, er eg hafði sett með endilangri framhlið hússins eftir að Tína kom, að eg sá bleika, lágt-

liggjandi bliku yzt í vestri. Hún var einhvern veginn frábrugðin öðrum blikum, er eg hafði tekið eftir, en hún gaf mér ekki frekara tilefni til áhyggju. Eg gleymdi henni, og er eg kom heim af akrinum um kvöldið, var orðið of dimt til þess, að hægt væri að hyggja að henni, enda þótt eg hefði hugsað út í það. Morguninn eftir, er eg kom út, var Tína þar fyrir og horfði áhyggjufullum augum til vesturs.. Hún tók í handlegg mér með annari hendi og benti mér með hinni.

'Elskan mín!' sagði hún og hálfgjört stamaði, 'er það ekki—eldur?'

Hún hvískraði seinasta orðinu. Eg svaraði engu, en eg býst við að hún hafi lesið út úr mér hugboð mitt um það. Eg klappaði henni á vangann, tók hana í faðm mér og sneri henni við til austurs og reyndi að gjöra hlátur úr þessu.

'Þetta er sama sem enginn eldur,' sagði eg; 'hann deyr út löngu áður en hann nær hingað.' Henni stökk ekki bros; hún horfði einungis stóru, bláu gagnrýnandi augunum framan í mig svo fast, að eg varð að líta undan. Hún söng ekki á leiðinni heim að húsinu, þegar hún sneri til baka, og eg sá hana krjúpandi á knjánum með drenginn í faðminum, þegar eg leit inn um dyrnar um leið og eg fór út á akurinn.

Skýið óx þennan dag. Það var orðið að bakka, er tók út yfir gjörvalt vestrið, og teygðist æ lengra og lengra til norðurs; að síðustu hneig sólin bak við kólgunа og sást ekki framar um kvöldið.

Það var ekki til neins fyrir mig lengur að reyna að dylja hræðsluna. Eg fór út í vestlægustu akurröndina þegar er eg hafði lokið miðdegisverði og læddist þangað er eg hafði falið öxi mína áður en eg fór heim. Eg afklæddi mig ofan að belti og tók til á því, sem sýndist að vera, eins og það líka var, ókleyft verk — að fram-

lengja eldvarnar-línu þá, er eg í hjáverkum mínum hafði verið að höggva þrjú síðustu árin í gegn um skóginn, okkur til varnar ef skógareld bæri að höndum. Bergmálið af fyrsta axarhögginu var ekki dáið út, þegar eg sá hana að baki mér með barnið í fanginu. Hún setti drenginn frá sér og kom beint þangað er eg stóð.

'Það er hætta á ferðum,' sagði hún, 'og þú hefir reynt að dylja mig þess. Þú ætlar að vinna í nótt. Eg gjöri slíkt hið sama; því að það er heimilið okkar, sem þú ert að hugsa um að frelsa.'

"Eg lagði frá mér öxina og kysti hana, og varð hún glaðari í bragði. Eg leitaðist við að sýnast vera öruggur og ókvíðinn og virtist hún taka tillit til þess, er hún sá, að eg bar mig stillilega. Einu sinni skelti hún upp yfir sig af hlátri, er hún fann Ólaf litla sofandi hjá ofurlitlum eldi, er hún hafði gjört fyrir hann, og hann haft svo mikið gaman af. Hún dró í burtu hverja hrúguna á fætur annari af kjarri því, er eg hjó, og vildu þá stundum rifna pilsin á henni og hendurnar urðu allar með rispum.

Þegar leið á nóttina reyndi eg að fá hana til að hætta; en eg mátti til að láta sem svo, að ekkt lægi lífið á, og fara með henni heim; hún datt út af alveg úrvinda — of lúin til þess að geta afklæðst.

Er hún var sofnuð, læddist eg í burtu og tók að nýju til óspiltra málanna, því að nú sá eg öðru hverju í vestrinu skjóta upp á himininn daufum dumbrauðum glampa.

Það er ómögulegt hér úti í skógunum að geta farið nokkuð nærri um hve nálægur eldurinn er. Ef logn er og reykinn leggur með jörðu, getur hann verið kominn svo nærri, að ekki séu þrjú hudruð fet til hans þegar blossinn sést fyrst; en hitans vegna verður þó fyr vart við hann. Aftur á móti, ef vindurinn setur reykinn upp í loftið, er hægt að forðast hann áður en hann

nálgast um of. Það er ekki bálið, sem drepur flesta er týna lífinu í skógareldum; það er hinn kæfandi hiti. Eg efast um, að einn af hverjum tíu, er týnst hefir í skógareldum, hafi nokkurn tíma séð bálið áður en hann hneig niður dauður. Torveldast af öllu er að vita hvar eldurinn er.

Það er eins og eldurinn þreifi fyrir sér; hann teygir fram hramminn þar sem hann finnur að kjarrið og trén eru þurrust fyrir, og geysist allur á eftir, beygir af leið og laumast eftir giljum og gjótum óraleiðir og í ótal hlykkjum; stundum tekur hann undir sig stökk til að flýta verkinu og kveikir í hingað og þangað á fjarliggjandi stöðum; hann fer sinna eigin ferða eins og ógurlegur lifandi og herkænn voðagautur, er safnað hefir um sig óvígum her, og sendir hersveit eftir hersveit til þess að slá hring um herfang sitt; hann fer á huldu eftir óvæntum og ókunnum leynistigum. Hann dofnar og dettur niður og tælir þá, er í grendinni búa til þess að trúa því, að þeir megi með öllu óhultir vera. Þannig getur hann legið í dái svo dögum skiftir. En á meðan hefir hann verið að safna nýjum kröftum og bíða eftir fulltingi vindsins; nú funar hann upp og geysar fram í öskurjúkandi bræði báls og dauða, skjótari hverjum veðreiðahesti til að hremma þá, er ekki hafa haft rænu á að forða sér, eða hina, er lagt hafa á flótta. Mörg hundruð hafa farist er gengið hafa beint í hann og hugsað, að þeir að síðustu hefðu valið þann veg, sem til lífsins leiddi. Mörg hundruð hafa farist, er lögðu á flótta beint undan honum og flýðu og flýðu þangað til þeir hnigu örmagna til jarðar, meðan hann sókti eftir brunandi og funandi og náði loks að hvæsa á þá og—velta sér svo yfir þá eftir eigin geðþótta.

Eg hamaðist hverja stundina eftir aðra eins og óður maður. Svitinn streymdi niður um mig í lækjum.

Eg gleymdi öllum lúa. Eg man að mig angraði að heyra hve aumkunarlega hesturinn hneggjaði og barðist um af hræðslu heima í kofanum sínum. Eg óttaðist að hann myndi vekja Tínu. Kýrin, er var á bás til hliðar við hann, baulaði annað veifið og, eftir því er virtist, afskaplega hátt. Eg heyrði vængjablak skógarhænsnanna og orrans ganga ótt og títt austur um næturhimininn yfir gnæfandi grenitrjánum og furunni. Eg vann af enn meiri ákafa, en var rétt við það að gefa upp vonina. Eldvarnar-línan mín átti langt í land — svo langt, að ekkert viðlit var, að kraftar mínir gætu endst til að koma henni í gegn, ekkert viðlit að kraftar tuttugu manna gætu orkað því.

Mér félst hugur í svipinn og eg hallaðist fram á öxi mína.

Alt í einu heyrði eg kveða við í fjarska dunur miklar og dynki, er færðust æ nær og nær, og úr skóginum kom þjótandi afar-mikill elgsbukkur (bull moose) og bar hann svo nærri, að lá við sjálft, að eg yrði fyrir honum. Þetta var einmitt á þeim tíma, er þeir eru hættulegastir og víla ekki fyrir sér, að ráðast á menn án þess að vera nokkuð áreittir. Honum varð felmt og fnasaði mikið eins og hann væri hissa; svo hélt hann áfram flóttanum sem forvörður í broddi fylkingar fjölda dýra, er þustu eftir og æddu viðstöðulaust þvert yfir heimarjóðrið mitt. Nú komu kanínur með lafandi eyru á langstökki og á svo nákvæmlega reglubundnum hraða, að auðsætt var, að þær voru komnar um langar og torsóttar leiðir. Hirtir og rádýr af ýmsum tegundum þutu hjá eins og vofur og tveir hýðbirnir fóru mér svo nærri, að eg hefði getað höggvið til þeirra með öxinni. Annar elgsbukkur stanzaði skamt frá mér og hugsaði eg þá með mér, að einhvern tíma hefði mér þótt bera vel í veiði, er hið frána auga bukksins starði á mig; en hann var friðhelgur nú. Hræðsla hins fyrsta

manns greip mig, og eins og dýrin sá eg, að ekkert annað en skyndilegur flótti gæti forðað lífi mínu og minna. Eldurinn hlaut að hafa komist miklu nær en eg hafði búist við.

Eg tók skyrtuna mína þar sem hún lá og hljóp á eftir villidýrunum heim að húsinu. Tína svaf enn, en eg sá að vondir draumar höfðu komið út á henni tárunum, er streymt höfðu í lækjum niður rykugar kinnarnar á henni. Ólafur litli kúrði brosandi og óhultur í faðmi hennar og vissi ekkert um skelfingar þær, er dunið höfðu á um nóttina. Eg hleypti í mig kjarki til þess að geta haft vald á mér meðan eg vekti hana, sem eg og gjörði með hinni mestu varúð. Hún hrökk við og settist upp í ofboði miklu. Hún varð gagntekin af hræðslu, og eg sá angist móðurhjartans afmálaða í augum hennar; svo spratt hún á fætur með handleggina sveipaða um drenginn.

'Bú þig sem skjótast', sagði eg; 'eg hefi beðið ósigur', og þá skildi eg fyrst til fulls hve átakanlega eg hafði orðið undir í stríðinu. Hún eyddi engum tíma í mælgi, en fór að taka til ýmsan léttavarning, er við máttum ekki án vera: — Dálítið af mat, ullarteppi og þess háttar. Hún stóð albúin og beið mín úti á svölunum, þegar eg kom með söðlaðan fararskjótann er skalf á beinunum, og varð eg að halda stutt í við hann; eg teymdi kúna líka á eftir mér, sem var jafnhrædd og hesturinn. Eg þurfti þeirra beggja við; kúna notaði eg til áburðar, batt böggla okkar upp á hana, og tók hún því með stakri þolinmæði. Eg lyfti Tínu með byrði sinni í söðulinn og um leið og ljómaði af degi, lögðum við af stað út yfir heima-rjóðrið okkar. Við höfðum ekki mælt orð af munni, en þegar við vorum í þann veginn að hverfa inn á skógarstiginn, sáum við hvort annað líta til baka í angist hjartans yfir hinar hjartfólgnu, yfirgefnu stöðvar. Eignin okkar — af okkur dæmda —

er við höfðum lagt svo mikla stund á að rækta og prýða: hagsældar-heimilið okkar — kastalinn draumanna okkar — hreiðraði sig þar í grárri skímunni umlukt blómum og laufskrúði eins og í hljóði að biðja okkur að forða sér frá að verða að líkbáli vonanna okkar í skóginum.

Og enn hvíldi það í rósemd og óbliknaðri fegurð með sama gleðiblænum til yztu útjaðra, eins og við því búið að verða vel við dauða sínum.

*Voðalegur flótti undan eldinum.*

Eg brast í grát. Eg gat ekki að því gjört. En þegar hún rétti út hendina og klappaði á úfna og storkna hárið á mér, fyrirvarð eg mig, beit á jaxlinn og ruddist sem óður væri inn í eyðiskóga-mörkina, er nú stóð feigum fótum, með litlu lestina mína á eftir mér. Það þurfti að halda í við hestinn, því að hann var fast á hælum mér, og kýrin brokkaði þunglamalega án þess þó að verða til tafar; það var eins og henni væri hugnun í því, að vera í hópnum með okkur er höfðum umgengist hana svo lengi og alið önn fyrir. Í fyrsta sinn tók eg nú eftir því, að hitinn var afar-mikill, þrátt fyrir það, að svo hlaut að hafa verið klukkutímum saman á meðan eg sveittist blóðinu að árangurslausu við framlenging eldvarnar-línunnar. Mér fanst hver mínúta sem leið vera heill mannsaldur.

Mér var þungt um andardrátt. Eg blés eins og smiðjubelgur og mér fanst sem lungun í mér vera í þann veginn að gefast upp við ætlunarverk sitt.

Það var kipt snögglega í taumana á hestinum og kúnni og numið staðar. Tína rendi sér léttilega niður úr söðlinum. Hún rétti mér barnið og mælti svo fyrir, að eg færi á bak hestinum. Eg mótmælti því, en hún krafðist fastlega að eg gjörði það á meðan mér væri að renna mesta mæðin. Eg lét að orðum hennar, en svo

stirður var eg og lémagna, að það var með mestu herkjum, að eg komst á bak með drenginn, er í fyrstu hafði hlegið dátt í fangi mér, hlátri, er gekk í gegnum mig eins og sverðseggjar; hann vissi ekkert um það, drengurinn okkar, að við vorum á hræðilegum flótta undan bráðum dauða, en svo hafði hann farið að beygja út af og snökta upp við brjóst mér. Tár barnsins brendu sig nú inn í sál mína og sorg mín var þyngri en áður.

Tína hljóp létt eins og hind og okkur miðaði skjótar áfram. Einu sinni hljóðaði hún upp yfir sig af hræðslu, er afarmikill skógarbjörn þaut eins og elding fram hjá okkur; en í slíku veldi angistar og hræðslu, varð ekki blessaðri skepnunni, hestinum undir mér, svo mikið sem að frýsa eða fnasa. Allsstaðar hringinn í kring um okkur sáum við lifandi skepnur æðandi fram í angist dauðans. Hesturinn svall af skapi og beit mélin að árangurslausu, bráðlátur í að létt væri af sér byrðinni og að verða slept lausum.

Einu sinni, þegar Tínu varð fótaskortur, lá við sjálft að hann stigi ofan á hana áður en eg fengi stilt hann. Hún hljóp aftur af stað með hárið laust, er streymdi aftur af höfðinu á henni eins og glóandi gullfoss. Nú lét eg hana fara aftur á bak hestinum, og þegar eg lyfti henni upp í söðulinn sá eg ekkert annað í föla andlitinu á henni en hugrekkið og einbeitnina.

Það gengdi furðu, hve einmanaleg við vorum nú; mig undraði stórum, hvers vegna það væri, en í sömu andrá kemur þá hópur dýra æðandi á ská yfir stíginn okkar og stefndu til norðausturs.

'Guð minn góður!' hrópaði eg með sjálfum mér, 'eldurinn er þá líka á þessa hliðina.'

Eg ruddist þvert út af stígnum og bað konuna mína að beygja sig lágt í söðlinum og gæta sín fyrir niðurhangandi limum trjánna.

Hún spurði mig einskis. Hún sá eins vel og eg,

að *sundin voru að lokast*, að dauðinn kom í funandi hvirfilbyl þvert yfir veg þann, er við höfðum vonað að yrði okkur til undanfæris. Á meðan eg ruddist áfram var eg að hugsa um eitthvert mögulegt úrræði. Eg vissi, að brátt mundi verða fyrir mér villidýra-stígur, er þau höfðu lagt að smávatna-klasa, er var þar í grendinni. Eg var ekki með öllu vonlaus. Eg vissi það, að aðal-vatnið var margar mílur á lengd og meira en tvær mílur á breidd. Gætum við einungis komist yfir um það, og engir eldar væru á ströndinni hinum megin, þá var okkur í lófa lagið að dvelja þar, þangað til eldarnir kæmust í kring um vatnið og snúa þá aftur til baka. Að öðrum kosti var úti um okkur.

Á hlaupunum í gegn um skóginn hugsaði eg mig um bæn og bað guð, ef honum þóknaðist að krefjast fórnar, að það mætti verða eg; grátbændi hann að hlífa Tínu og drengnum; ákallaði hann í heitri bæn að stýra fótum mínum og gefa mér skíra sjón hins innra eðlis eins og hann hafði gefið villidýrunum, er flúið höfðu samhliða okkur um morguninn.

Reyknum var farið að slá niður þegar við komum að vatninu. Eg bað Tínu að fara af baki og binda hestinn, en eg tók ofan af kúnni, og hljóp að stóru grenitré, er stóð rétt við vatnið. Eg hjó til þess af öllum þeim kröftum, er eftir voru í mér, og toppgreinar þess gjörðu afarmikinn gusugang á spegilsléttu vatninu. Mér fanst tími sá, er gekk í að höggva tvo bjálka og fjötra þá saman í fljótandi fleka á vatninu, aldrei ætla að taka enda.

Reykurinn jókst nú að mun og loftið hitnaði að sama skapi. Sólin var komin vel upp og var eins og glóðarskjöldur er hengdur hefði verið upp á einhvern annarlegan himin. Hesturinn fnasaði og hneggjaði, en gat ekki slitið sig upp.

Eg heyrði brest mikinn og hljóð frá Tínu. Kýrin, 6

er alt að þessu hafði verið auðsveip og þæg, hafði nú ekki lengur staðist mátið, slitið sig upp og ætt á klunnalegu stökki í skóginn, ef til vill hugsandi sem svo, að við værum ekki að neinu bættari þó að hún fórnaði sér líka, og maklegast væri því, að við gildum okkar eigin glópsku.

Eg bar eins mikið og eg frekast mátti út á flekann minn og lét svo hitt eiga sig. Hann var sökkhlaðinn eins og hann var, en eg þorði ekki að tefja tímann lengur. Aumingja Tína, alt af þegjandi, aldrei kvartandi, síhuguð og einbeitt, kom nú með drenginn í fanginu út á flekann, og gutlaðist vatnið um fætur henni og fátæklegu búslóðina okkar um leið og hún gekk fram eftir flekanum. Þá lá við sjálft að eg hrópaði upp af fögnuði, er eg fann þunna böku af trjábol til hálfs á kafi í sandinum; hún bar menjar sögunarmylnu, er nú var löngu gleymd, og kom hún mér nú að góðu haldi, því að eg gat notað hana sem ár. Eg ýtti flekanum vel á flot og fór að sækja hestinn. Jafnvel þó að eg sé sæmilega knappur maður, varð eg þó að taka á því, er eg hafði til, til þess að toga hann út í vatnið, en um leið og hann tók sundið, var eins og hann áttaði sig á því, að þetta mundi vera sér fyrir beztu og kom svo á eftir. Eg synti með fram flekanum, rétti Tínu bökuspaðann til varðveizlu, og á þennan einkennilega hátt var ferð okkar hafin yfir um vatnið, er nú var sveipað þykkri reykjarmóðu. Eg hélt annari hendi í flekann, en hinni í herðakambinn á hestinum og þreyttum við sundið þannig — hesturinn og eg — um stund, en — ekkert gekk. Með nauðung var það, að eg gæti fengið mig til að sleppa hestinum, en nú mátti eg til, og klifraðist upp á bjálkana að aftan, en á meðan synti hesturinn knálega á brott og var óðar horfinn út í reykarmóðuna. Eg greip óhefluðu árina mína og horfði stöðugt til sólar svo eg gæti haldið stefnunni, en við og við

mátti eg til að steypa mér í vatnið til þess að kæla mér. Tína jós vatni yfir sig og Ólaf með lófanum og hló hann dátt að því, og reyndi að grípa með þykku krumlunum sínum dropana um leið og þeir drupu.

'——é—hno—ho—ho—o!'

Það barst hrynjandi raust í gegn um reykjar-móðuna þaðan, er við sáum nú glóra til strandarinnar, eg leit upp og tók undir, en fékk ekkert svar aftur. Eg sá það, að skógurinn fyrir handan okkur var óskaddaður, að hann stóð þar enn í sínum stórhrikalega mikilleik, þungur á svip og þegjandalegur sem til þess búinn, að mæta örlögum dagsins. Eg sá nú glögt til lands, og þegar eg nálgaðist betur sá eg enn fremur, að maður, mikill vexti og tígulegur, gekk úr skógnum og staðnæmdist niður við vatnsborðið. Hann var með krosslagða handleggina og stóð teinréttur með hælana fast saman. Hann steypti sér í vatnið og hjálpaði okkur að ná landtöku. Það var Chippewa John — Jón Smiður — sem enn er á lífi, hinn lotningarverði Indíánahöfðingi.

'Hestur hvíta mannsins,' sagði hann án þess að viðhafa mikla mælsku. 'Eg náði honum. Eg batt hann við tré', og hann benti upp í skóginn að baki okkur.

Eg held að eg hafi ekki þakkað honum fyrir það þá. Eg gjörði það síðar meir. Eg var maður ekki með fullri rænu; sál mín svam í þoku og reyk. Alt hafði verið svo skyndilega keyrt um koll, að sjálfar akkerisfestar lífsins virtust höggnar, velsæmi þess bugað, og augnamið þess að engu gjört af ómótstæðilegu öfugstreymi.

Sólin var í hádegisstað og eins og messingskúla að sjá. Að baki mér stóðu grenitrén ósnortin og með alvörusvip; þau teygðu hugprúðar keilur sínar og köngul-skúfa upp í rjúkandi geiminn. Upp að fótum mér liðu eftir vatninu smá-bárur, er naumast létu brydda á

broti við sandinn, og var rétt eins og það kæmi þeim ekkert við þó að himinn og jörð stæðu í björtu báli. Það var enn eimur eftir af skógarbruna-lyktinni fyrir vitunum á mér og enn fann eg með óumræðilegum næmleik steikjandi hitann af hinum fjarlægu eldum. Grúfandi, dokandi dauðaþögn var alt umhverfis mig. Dynurinn af hamslausum æðisgangi lafhræddra dýra, er flúið höfðu samsíða mér gegn um skógarkjarrið, og súgurinn af örvænisflugi fuglanna, er þotið hafði um eyru mér alla leið út á flekann er fleytt hafði okkur yfir vatnið, hafði dottið niður — í dauðaþögn. Í svip glaptist mér svo sýn, að eg óttaðist, að eg stæði einn uppi eftirskilinn í gapi ginnunga. Eg stappaði niður fætinum til þess að komast að réttri raun um, hvort eg áreiðanlega stæði á jörðinni. Á meðan ráð mitt var á þessum ruglingi, starði eg ýmist út í bláinn, á Indíánann, hendurnar á mér sundurflakandi af sárum, eða ofan á fötin mín gagnrennandi, unz eg að lokum öðlaðist óljósa meðvitund um, að við værum ekki lengur í bráðri hættu."

Knútur nam staðar augnablik og lét handleggina hanga. Það hafði dimt. Hann hafði gengið ótt og títt fram og til baka annars vegar við eldinn, sem nærri var útdauður. Eg hafði ekki áræði að tala til hans og ónáða hann með því, að biðja hann að halda áfram sögunni, svo eg laumaðist að því að henda á glæðurnar greinarstúfi; hann hrökk við um leið og eldurinn blossaði upp, krosslagði handleggina aftur, og hélt áfram í mjúkum rómi:

"Sagan er við það að vera búin.

Til hvers er það, að eg fari að segja þér, að Indíáninn á flótta sínum fylgdi okkur og aðstoðaði vel og rækilega. *Að*, með því að leiðin að griðlandi okkar lá yfir öræfi, þakin ösku og eimyrju, þá vorum við á

dauðuppgefnum fótum með brunnið hold að beini, er við loks náðum þangað. *Að*, mér til mikillar sorgar, hafði bróðir minn verið einn meðal þeirra, er farist höfðu. *Að* eg fór að vinna í járnnámunum og kom þar undir mig fótunum aftur, borgaði skuldir mínar og lagði undirstöðuna að auðlegð minni og hamingju?

Það er orðið svo langt síðan að þetta skeði, að sumt af því er eins og draumur nú.

Það, sem mestu virðist skifta, er það, að eg stóð á ströndinni við vatnið og horfði yfir um til skóganna er skýlt höfðu heimili mínu og hlúð að draumum mínum, en voru nú ekki annað en aska og rústir táldreginna vona, og að eg algerlega árangurslaust skók hnefana í bræði minni í áttina til þessa heimska og helvízka glepsivargs — eldsins, er alt hafði gleipt. Það má vel vera, að eg hafi blótað að dæmi hinna fornu skálabúa. Eg veit það ekki. Eg var eins og barn í ósigri mínum og angri.

Indíáninn kipti í rennandi vota ermina mína. Eg sneri mér við, og sá eg þá, að sólskinið enn hafði fundið gullna blæinn á glóbjarta hárinu á Tínu þar sem hún kraup á hnjánum holdvot og í rifnum og ötuðum flíkum með hendurnar spentar fyrir ofan höfuðið, í brennandi bæn, og drenginn sitja flötum beinum við hliðina á henni, er lék sér að því, að búa til rósir með fingrunum, og ugði ekkert að harmleik lífsins. Það var nægilegt. Eg lét fallast á andlit mitt og grét fögrum þakklætistárum."

(Jón Runólfsson þýddi).



## Íslenzkur Sherlock Homes.

Niðurlag frá bls. 36.

og hann gat ekki í öðru skilið, en að hægt væri að ráða fram úr þessu með ofurlítilli umhugsun. Og alt í einu þóttist hann sjá, hvernig í öllu lagi — hvernig peningarnir hefðu horfið, og hver væri þjófurinn. Hann gat svo um það við húsbónda sinn, að hann héldi að hann gæti fnndið þjófinn, og jafnvel peningana líka.

Húsbóndi Halls fór nú á fund gyðingsins, og sagði honum, að hann þekti mann, sem gæti bent á þjófinn, sem stolið hefði peningunum hans. Ggðingurinn varð glaður, og bað Mr. Miller (því svo hét húsbóndi Halls) að ganga með sér yfir götuna til friðdómarans, sem Seller hét, og tala um þetta nánar í hans viðurvist.

Þeir gengu svo yfir á skrifstofu friðdómarans, og sagði Gyðingurinn honum strax, að Mr. Miller þekti mann er bent gæti á þjófinn; kvaðst Gyðingurinn vilja að friðdómarinn talaði við þenna mann fyrir sína hönd.

,,Og hver er þessi maður?" sagði Seller friðdómari.

,,Það er bara vinnumaðurinn minn", sagði Mr. Miller, ,,það er unglingur og Íslendingur í tilbót".

,,Unglingur og Íslendingur í tilbót!" sagði Seller friðdómari og gretti sig ofurlítið. ,,Hann hlýtur að vera slunginn náungi, fyrst hann getur leyst úr þeirri ráðgátu, sem þaulæfðir leynilögrelgluþjónar botna ekkert í, og ganga frá ráðalausir. En auðvitað eta þeir mikið af fiski þar norður á Íslandi, og hafa því að líkindum góðan heila. En þykist þessi útlendingur geta fundið þjófinn?"

,,Hann er hárviss um að geta það", sagði Mr. Miller; ,,og hann finnur peningana ef til vill líka. Og vona eg að honum verði borguð þessi hundrað dala verðlaun alveg refjalaust".

,,Eg skal standa við loforð mitt, hvað það snertir", sagði Gyðingurinn.

Seller friðdómari sagði að þeir skyldu samt fara varlega í sakirnar, og vera ekki um of auðtrúa. Hann sagð-

ist lítið traust bera til óbreyttra verkamanna í þessum sökum — ekki sízt útlendinga; — kvaðst hafa vitað til þess í líkum tilfellum, að fáfróðir menn og ágjarnir hefðu dróttað þjófnaði og öðrum glæpum að alveg saklausum mönnum, sem þeim hefði verið í nöp við, til þess að geta hrept verðlaun þau, er til boða hefðu staðið, samt sagði hann að vel gæti verið, að Hallur væri í alla staði heiðarlegur maður og mjög vel gefinn, en kvaðst enga sönnun hafa fyrir því.

Þeir töluðu svo um þetta fram og aftur nokkra stund og á endanum kom þeim saman um það, að þeir skyldu allir hittast næsta dag í búð Gyðingsins til að heyra, hvaða rök Hallur kæmi með, máli sínu til sönnunar.

Næsta dag fundust þeir allir í búðinni. Hallur bað um að mega skoða svefnherbergi Gyðingsins, og fóru þeir þá allir þangað. Hallur skoðaði lítíllega skrána á hurðinni, leit á peningaskápinn, gaf skorsteininum hornauga og glotti um leið, en virtist aðallega veita rúminu nákvæmar gætur.

,,Já, já!" sagði Seller friðdómari, og efasemdar-glott lék um varir hans; ,,geturðu nú vinur minn, bent okkur á þjófinn og vísað okkur á peningana?"

,,Eg get *bent* ykkur á þjófinn," sagði Hallur mjög sakleysislegur, ,,og eg get *gizkað* á, hvar peningarnir eru."

,,Segðu okkur fyrst, hver þjófurinn er," sagði Seller friðdómari, ,,og svo er hægt að leita að peningunum, ef þeir eru enn óeyddir, þegar búið er að taka þjófinn fastan."

,,En mér er ekki um, að þjófurinn sé tekinn fastur," sagði Hallur ög brosti raunalega; ,,eg vil að honum sé fyrirgefið."

Það kom nú undarlegur svipur á andlit friðdómarans, og hann leit tortrygnis-augum á Hall.

,,Nei, enga vægð, "sagði hann; ,,það verður að taka þjófinn fastan, svo framt að hann finnist."

,,Verður það endilega að gjörast?" sagði Hallur mjög raunalega.

,,Já endilega,“ sagði friðdómarinn ; ,,engar vífilengjur ! Hver er þjófurinn ?“

,,Með leyfi herra kaupmannsins skal eg undir eins benda ykkur á hann,“ sagði Hallur.

Gyðingurinn gaf samþykki sitt til þess.

Hallur þagði litla stund og horfði fast á friðdómarann, vék sér síðan með mestu hægð að Gyðingnum, klappaði á öxl honum og sagði :

,,Þú herra minn, þú ert sjálfur þjófurinn!“

Gyðingurinn varð forðviða, Mr. Miller varð höggdofa, og friðdómarinn —já, hann varð bókstaflega skelkaður og færði sig nær dyrunum ; hann þóttist viss, að Hallur væri vitstola.

Það varð dauðaþögn í herberginn.

,,Eg !“ sagði Gyðingurinn loksins og saup kveljur; ,,er eg þjófurinn ?“

,,Já,“ sagði Hallur.

,,Elskurinn minn bezti, hvað ertu að segja ?“ sagði Mr. Miller og streittist við að kingja einhverju niður.

,,Maðurinn er vitstola,“ sagði friðdómarinn ; “mig grunaði það lengi, en nú *veit* eg það.“

,,Leyfið mér að útskýra þetta betur,“ sagði Hallur með mestu hægð ; “herra kaupmaðurinn er þjófurinn, án þess að vita það sjálfur. Hann hefir stolið frá sjálfum sér, þegar hann var sofandi — hann hefir gengið í svefni. Vakandi og sofandi hefir hann verið að hugsa um peningana, sem hann vildi leggja á bankann. Hann hefir dreymt, að hann værikominn til Halifax — dreymt að hann væri kominn í bankann — hefir í svefninum farið á fætur, opnað skápinn, tekið þessa vissu upphæð úr veskinu, læst svo skápnum aftur og — falið peningana.“

Í þessu kom móðir Gyðingsins inn í herbergið. Hún hafði heyrt á tal þeirra.

,,Þetta má vel vera,“ sagði hún, ,,því sonur minn átti vanda fyrir að ganga í svefni, þegar hann var drengur, en í seinni tíð hef eg ekki orðið þess vör.“

,,En hvar hefir hann þá falið peningana?“ sagði friðdómarinn og færði sig frá dyrunum og innar á gólfið.

,,Í sænginni, auðvitað,“ sagði Hallur brosandi,

,,fyrst engin önnur hirzla er til í herberginu en skápurinn. Honum hefir fundist það í svefninum, að sængin vera bankinn.''

Gyðingurinn og friðdómarinn óðu nú að rúminu og lyftu upp sænginni — það var hálmsæng. Á einu horninu á sængur-verinu var ofurlítil rifa. Gyðingurinn fór þar inn í með hendina og dró hana strax út aftur. Hann hafði fundið alla peningana — tvö hundruð dali. Allir ráku upp stór augu, nema — Hallur.

Gyðingurinn fékk Halli strax helminginn af peningunum, sem í sænginni fundust, en sagðist vona, að sem minst yrði um þetta talað.

Þegar Hallur var að ganga ofan stigann, heyrði hann að Seller friðdómari var að tauta fyrir munni sér:

,,Ef þessi Íslendingur er ekki hreint og beint fjandinn sjálfur, þá er eg illa svikinn!''

---

Hallur var í Shubenacadie það sem eftir var vetrarins, en um vorið flutti hann sig til Halifax, og fór nokkru síðar til Boston. Síðan hefi eg ekkert af honum frétt.— En eg hugsa æfinlega til hans, þegar eg les æfintýr Sherlock Holmes.



ÓLAFUR S. THORGEIRSSON :

# Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.

---

27. Júní 1909, voru prestvigðir meðan stóð á kirkjuþingi, guðfræðiskandídatarnir: Guttormur Guttormsson (hans hefir áður verið getið í þessu almanaki) og Sigurður S. Christopherson. Foreldrar hans eru Sigurjón Kristófersson og Helga Jórunn Jónsdóttir frá Ytri-Neslöndum við Mývatn, nú til heimilis á Baldur í Manitoba. Báðir höfðu þeir útskrifast af lúterska prestaskólanum í Chicago í apríl, sama ár.

Í Júní 1909 varð Þorbergur Þorvaldson sæmdur nafnbóttinni: **Master of Arts**, við Harward-háskólann í Bandaríkjunum.

19. sept. 1909, var Guðmundur Árnason, sem stundað hafði guðfræðisnám við háskólann í Berlin á Þyzkalandi (sjá þetta Almanak fyrir 1909), settur í prestsembætti við ísl. Únitara söfnuðinn í Winnipeg af forseta safnaðarins, Jósep B. Skaftasyni.

2. maí 1909, var guðfræðiskandidat, Hjörtur J. Leó, vígður af forseta kirkjufélagsins, síra Birni B. Jónssyni í kirkju St. Páls-safnaðar í Minneota.

Í maímánnði 1909 útskrifuðust af læknaskólanum í Winnipeg; Jóhann Pálsson, sonur Páls Halldórssonar við Geysis-pósthús í Nýja-Ísl. (bjó fyrrum á Íslandi á Reykjum á Reykjaströnd), og Magnús Hjaltason. Foreldrar hans Hjalti Hjaltason (d. 1893) og Margrét Helgadóttir, fluttu hingað vestur frá Gilsstöðum í Steingrímsfirði í Strandasýslu 1888.

4. júli 1909, fór fram vígsla tveggja kirkna í Þingvallanýlendu, Konkordíu-safnaðar og Þingvalla-safnaðar af forseta kirkjufélagsins, síra B. B. Jónssyni og síra Jóni Bjarnasyni. Um leið var settur inn í prestsembættið, síra Hjörtur J. Leó hjá söfnuðum þessum. Einnig var þá um leið grafreitur Konkordíu-safn. vígður.

Snemma á árinu 1909, hlaut Skúli Jónsson, ungur námsmaður við Wesley skólann í Winnipeg þann heiður að verða styrkþegi Cecil Rhodes-sjóðsins. Fyrir því happi verður efnilegastur námsmaður fylkisins á ári hverju. Upphæðin er 4,500 dollars, $1500 goldnir ár hvert til þriggja ára og þriggja ára vist við háskólann í Öxnafurðu á Englandi og fór Skúli þangað að hausti, sama ár. Skúli er Sveinsson Jónssonar, systursonur Sveins heit. Skúlasonar, þjóðkunns gáfumanns og rithöfunds. Fæddur að Hlíð á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, 6. sept. 1888.

## MANNALÁT.

24. okt. 1908: Steingrímur Grímsson til heimllis, hjá dóttir sinni, Kristínu, ekkju, búandi við Milton, N.-Dak. (ættaður úr Reykholtsdal í Borgarfirði, hafði dvalið hér í landi um 26 ár), 77 ára.

14. nóv. 1908: Magnúsína Guðrún Pétursdóttir, kona Jakobs Norman, bónda við Kristnes-pósthús, (ættuð úr Skagafirði), 21 árs.

23. nóv. 1908: Rannveig Guðmundsdóttir (Vigfússonar prests á Melstað í Miðfirði), kona Jóns Jónssonar bónda við Mímir-pósthús í Sask., 55 ára.

24. nóv. 1908: Þorbjörg Eiriksdóttir við Mountain, N. D., ekkja, tvígift, síðari maður Sveinbjörn Jóhannsson d. 1889; (fluttu hingað frá Veðramóti í Skagaf. 1876) 78 ára.

13. desember 1908: Þórarinn Jónsson Norman, bóndi í Þingvallanýlendu í Sask., 43 ára.

15. des. 1908: Jón Bjarnason bóndi við Akra-pósthús í N.-Dak. flnttist af Vatnsuesi í Húnavatns.s. 1883).

17. des. 1908: Vigdís Gudmundsdóttir hjá syni sínum Grími bónda í Grunnavatns-bygð, ekkja Magnúsar Þorkelssonar (bjuggu þau á Ísl. um langt skeið á Grímstöðum við Rvík. og á Auðnum á Vatnsleysuströnd), 74 ára.

17. des. 1908: Margrét Kristjánsdóttír, kona Sigurðar Ingjaldssonar á Gimli, 76 ára.

### Janúar 1909:

5. Lárenzíus, sonur Þorláks bónda Þorfinnssonar við Munich, N.-Dak., 17 ára.

5. Sverrir Sveinsson Sverrissonar í Spanish Fork, Utah, (ættaður úr Vestmannaeyjum), 50 ára.

12. Pall Snæbjarnarson til heimilis hjá tengdasyni sínum, Jakob Einarssyni við Hekla-pósthús í Muskoka, Ont. (ættaður úr Húnavatnss., sonur Snæbjarnar Snæbjarnarsonar prests að Grímstungu í Vatnsdal og Kolfinnu Bjarnadóttir frá Þórormstungu), 89 ára.

20. Ingveldur, kona Þorkels bónda Johnsons við Lundar-pósthús í Manitoba.

25. Aðalsteinn Sigurðson Krákssonar í Mountain-bygð, N.-Dak. (úr Eyjarfjarðars.), ungur maður.
23. Stefán Teitsson í Winnipeg (ættaður af Skógarströnd í Snæfellsn.s.), 51 árs.
29. Kristján Friðrik Fischer, skipstjóri, til heimilis i Titusville, Florida (fæddur í Rvík 1836; foreldrar hans Hermann Fischer, kaupm. og Soffía Fischer), 73 ára.

FEBRÚAR 1909:

2. Jón Jónsson til heimilis í Vatnanýlendu Íslendinga í Sask. (af Seyðisfirði), 74 ára.
13. Kristín Jóhannesdóttir, kona Stefáns Jónssonar bónda í Árnesbygð í N.-Ísl. (ættuð af Vatnsnesi í Húnav.s.).
20. Grímur Pétursson til heimilis á Gimli (ættaður úr Skagafirði), 100 ára.
20. Guðlaug Benediktsdóttir kona Jakobs Eyford í Pembina (dóttir Benedikts Benediktssonar, sem bjó á Þórisstöðum á Svalbarðsströnd við Eyjafjörð).
22. Guðmundur Benediktsson í Grafton, N.-Dak. (ættaður úr Húnav.s.), 59 ára.

MARZ 1909:

1. Anna Þorláksdóttir til heimilis í Selkirk, ekkja Stefáns Bjarnasonar er lézt fyrir 10 árum siðan. Fluttust frá Sjávarborg í Skagafirði 1888. 96 ára gömul.
3. Stefán Eiríksson Björnssonar í Winnipeg (ættaður úr Vopnafirði), 26 ára.
3. Gunnar Guðmundsson bóndi í Ardalsbygð í Nyja-Íslandi (ættaðu r úr S.-Múlas. Flutti hingað vestur frá Vatni í Skagafirði 1900), 52 ára.
5. Oddny Lára, dóttir Halls bónda á Björk í Árnesbygð
7. Ólafur Indriðason hjá syni sínum, Óla Vilhjálmi, í W.peg (fluttist af Húsavík, Þingeyjars. 1887), 79ára.
8. Jón Benjamínsson í Pembina, N.-Dak. (frá Ytra-Lóni á Langanesi), 91 árs.
16. Jón T. Jónsson í Gilhaga í Árdalsbygð í N.-Ísl. (frá Gilhaga í Skagafirði), 35 ára.
16. Ástþrúður, dóttir hjónanna Tryggva Ólafssonar og Berglaugar Guðmundsdóttur við Skálholt-pósthús í Man., 17 ára.

20. Sigríður Guðmundsdóttir til heimilis í Þingvallanýl. í Sask., hjá dóttur sinni Pálinu og tengdasyni, Sig. bónda Jónssyni. Ekkja Marteins Guðlaugsonar (ættuð frá Litluströnd við Myvatn.), 82 ára.
21. Jónatan Jónatansson Péturssonar (frá Eiðum í Eiðaþinghá), kaupmaður í New Ark í S.-Dakota, 66 ára.
22. Margrét Gísladóttir, kona Björns Björnssonar bónda við Markerville, Alta., 34 ára.
23. Magnús Einarsson, bóndi í Þingvallanýlendu, Sask. (ættaður úr Árnessýslu), 87 ára.
28. Vilborg Guðmundsdóttir, ekkja Jóns. Jónssonar frá Hjarðarfelli, (sem lést í W.peg 26. jan, 1908), 65ára.

APRÍL 1909:

7. Jón sonur Páls Jónssonar og konu hans Sigríðar Lárusdóttir, búandi á Kjarna í Geysis-bygð í Nýja-Ísl., 26 ára.
9. Hannes Þorvaldsson á Gimli (ættaður úr Skagafirði), 65 ára.
9. Hilda, dóttir W. H. Paulson í Winnipeg, 17 ára.
12. Sigurður Jóhannsson til heimilis í Selkirk (ættaður úr Höfðahverfi í Þingeyjars.), 38 ára.
13. Guðmundur, sonur Björns Sigurðssonar Heidman og konu hans Guðrúnar Hallgrímsdóttur (frá Ármótaseli á Jökuldalsheiði) til heimilis í Cypress-bygð, Man., 22 ára.
13. Valdimar Sigfússon Reykdal, dóttursonur Árna bónda Reykdal við Lundar-pósthús, 14 ára.
13. Jón Björnsson Westmann í Spanish Fork, Utah (af Hornströndum), 64 ára.
14. Margrét Halldórsdóttir, kona Bergvinns Jónssonar bónda í Pipestone-nýlendu í Man.(ættuð af Þelamörk í Eyjafj. s.).
17. Kristján Bárðarson í Winnipeg (ættaður úr Hnappadalssýslu, bróðir Sigurðar Bárðarsonar, hómópata, sem nú er í Blaine, Wash.), ekkja hans heitir Ingveldur Þorsteinsdóttir.
18. Guðmundur Eyjólfsson í Minneota, Minn. (ættaður úr Fljótsdal), 82 ára.
27. Snjófríður Þorsteinsdóttir til heimilis hjá bróðir sínum

Ólafi Þorsteinssyni í Pembina, N.Dak. (ættuð úr Grafninginum í Árnessýslu), öldruð kona.

29. Þórhallur Sigvaldason í Winnipeg, (ættaður úr Þingeyjars. Foreldrar hans Sigvaldi Pálsson og Kristbjörg Einarsdóttir, 48 ára gamall.

MAÍ 1909:

4. Sveinn J. Hólm, bóndi í Minnesotanýlendunni (sonur Jóhannesar Sveinssonar frá Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá), 43 ára.

4. Ólafur Ólafsson til heimilis í Gravenhurst, Ontario (ættaður úr Strandasýslu), nær níræður að aldri.

5. Gunnlaugur Pétursson, bóndi í Lyon Co. í Minnesota. (Fyrsti ísl. landneminn í Minnesota-riki, sjá almanak þetta fyrir 1901), nær áttræður.

6. Einar Stefánsson til heimilis í Winnipeg (bjó allan sinn búskap á Ísl. í Arnanesi í Nesjum í Austur-Skaftafellss., ekkja hans heitir Lovísa Benediktsd.), 63 ára.

6. Valgerður Þorláksdóttir (Jónssonar frá Stóru-Tjörnum í Ljósavatnsskarði í Þingeyjarsýslu), kona Sigurjónsbónda Sveinssonar við Wynyard, Sask., 47 ára.

10. Ragnheiður Magnúsdóttir, kona Jóns Skaftfells í Winnipeg (ættuð úr Skaftafellssýslum) 53 ára gömul.

12. Þórdís Þorkelsdóttir, kona Jóns Finnssonar bónda við Addingham-pósthús á strönd Manitobavatns. Foreldrar hennar voru Þorkell Þorláksson og Margrét Þorláksdóttir er bjuggu um langan tíma á Þyrli á Hvalfjarðarströnd, 51 árs.

12. Albert Guðmundsson bóndi í Minnesota-nýlendunni við Minneota.

12. Björn Gíslason, Benjamínssonar við Olga, N.Dak.

13. Guðbjörg Jóhannesdóttir í Winnipeg (systfr Sig. Júl. Jóhannessonar, læknis í Leslie, Sask.), 36 ára.

16. Guðjón Ísleifsson að heimili sínu í Álftavatns-bygð í Manitoba, 76 ára gamall.

16. Rannveig Ólöf Stefánsdóttir í Winnipeg (frá Skinnalóni á Sléttu í Þingeyjarsýslu), 21 árs.

18. Ólöf Ingibjörg Steiusdóttir að heimili dóttur og tengdasonar S. Thompson í Selkirk (ekkja Steins í Vík í Héðinsfirði), 78 ára.

19. Davíð Jónsson til heimilis hjá syni sínum Guðmundi bónda á Grund í Mikley (fyrrum bóndi á Barkarstöðum og Reynhólum í Miðfirði í Húnav.s.),82 ára.
20. Björn Benediktsson, Björnssonar, til heimilis á Big Point, Man. (ættaður úr Þingeyjarsýslu), 63. ára.
27. Guðbert Eggertsson Jochumsson til heimilis í Winnipeg (bróðir síra Matthíasar Eggertssonar í Grímsey) 45 ára.
30. Kristín Jónsdóttir, kooa Jóns Sigurðssonar bónda við Víðir-pósthús í N.-Íslandi (ættuð úr Laxárdal í Þingeyjarsýslu), 48 ára.
30. Guðbjörg Ögmundsdóttir í Winnipeg, ekkja, tvígift, fyrri maður Þorbergur Guðmundsson, síðari Ólafur Pétursson.

JÚNÍ 1909.

3. Ólafur Magnússon bóndi við Akra-pósthús í N.Dak. (ættaður úr Borgarfirði syðra á Ísl.) um fimtugt.
5. Jón Rockman á Hálandi í Nyja Islandi (af Austurlandi), hniginn á efra aldur.
16. Benidikt Pálsson Vatnsdal bóndi við The Narrows-pósthús í Manitcba, á sextugs aldri.
24. Guðríður Jónsdóttir, kona Stefáns Stefánssonar bónda í Argyle-bygð, 75 ára gömul.
25. Bergþór Ólafur Jónsson bóndi í Þingvallanýlendu, Sask., (ættaðu. úr Laxárdal í Dalas., ekkja hans er Þórunn Stefánsdóttir frá Kalmanstungu, flutti hingað 1886), 56 ára.
25. Hildur Illhugadóttir tll heimilis hjá Guðm. Gíslasyni bónda í Gardar-bygð N.-Dak., um áttrætt.
27. Óvídá Jónasdóttir til heimilis hjá fóstursyni sínum Jóhanuesi Einarssyni í Lögbergsnýlendu Sask., ekkja Jóns Loptsonar, skipstjóra í Hvammi í Höfðahverfi við Eyjafjörð.

JÚLÍ 1909:

7. Ingibjörg Bjarnadóttir í Winnipeg fluttist hingað frá Tungunesi í Svínavatnshrepp í Húnav.s. fyrir rúmumm 20 árum), 76 ára.
8. Finnur Benidiktsson til heimilis hjá tengdasyni sínum Jóhannesi Freeman á Gímli (vestfirskur — systrungur Janusar prófasts Jónssonar í Holti í Önuudarfirði), 76 ára.

11. Páll Grímsson til heimilis hjá syni sínum, Óla, í Pembína, N.-D. (ættaður af Snæfellsnesi), 63 ára.
12. Eliná Sigurðardóttir til heimilis hjá dóttur sinni, Sigurjónu og tengdasyni, Óla Pálssyni í Pembina, N.-D., ekkja Jóns Jafetssonar Reinholts, 63 ára.
15. Guðrún Pálína Pálsdóttir, kona Eiríks Hallssonar bónda við Akra-pósthús í N.-Dak. (frá Egilsstóðum í S.-Múlas.), 70 ára.
15. Guðni Stefán Sigurðsson í Minneota, Minn. (sonur Sigurðar Guðnasonar og Bjargar Halldórsdóttir konu hans, sem bjuggu á Ljósavatni í Þingeyjars. Flutti vestur um haf 1873), 61 ára.
11. Sveinbjörg Einarsdóttir, ekkja Páls Sigurðssonar, er lézt í Winnipeg, 2. sept. 1907, 59 ára.

NÓVEMBER 1909:

2. Jónas Halldórsson til heimilis á Gimli (fluttist hingað fyrir sex árum frá Seilu í Skagafirði), rúml. sjötugur.
3. Páll Jónsson í Minneapolis, Minn. (ættaður úr Skagaf.), 22 ára.
8. Sigurbjörn Sigurðson til heimilis hjá syni sínum Jóhanni bónda við Leslie, Sask., (frá Ytra-Núpi í Vopnafirði), 66 ára.
14. Lárus Árnason í Grand Forks, N.-Dak. (sonur Árna Einarssonar og konu hans, Guðfinnu Jónsdóttir að Vilborgarstöðum í Westmanneyjum), 49 ára.
18. Gottskálk Sigfússon til heimilis á Gimli (fluttist frá Akureyri fyrir mörgum árum síðan — hvalfangari), gamall maður.
22. Guðný Guðmundsdóttir í Winnipeg, ekkja Jóns Jónassonar trésmiðs (frá Akureyri), 69 ára.
25. Jóhanna Bjarnadóttir Eymundsson, kona við Hnausa-pósthús Nyja-Íslandi.

Jósep Líndal í Victoria, B. C., sonur Jónatans Jónatanssonar Lindal bónda við Brown-pósthús í Man. (frá Miðópi í H.v.s.), um fertugt.



# INNIHALD ALMANAKSINS 1910.

